Kay Kernested

# FRAMHALD Á SEXTÍU ÁRA AFMÆLIS BÓK

Saga Álftavatns- og Grunnavatns-byggða

# FRAMHALD Á
# SEXTÍU ÁRA AFMÆLIS BÓK

Saga Álftavatns- og Grunnavatns-byggða




WINNIPEG, MANITOBA, CANADA
1950

# EFNISYFIRLIT

# FORMÁLI

*Afmælisbók Álftavatns- og Grunnavatnsbyggða var gefin út á Lundar, fyrir tveimur árum, eftir að 60 ára afmæli byggðarinnar var haldið þar. Bókin er sumpart prentuð á hérlendu máli „ensku" og sumpart á íslenzku. Þessi bók hefir vakið eftirtekt hérlendra manna og kvenna, og hefir jafnvel fengið hrós hjá mörgum lesendanna. Bókin sýnir ræktarsemi til íslenzku frumbyggjanna, er fóru út í óbyggðir þessa lands til landnáms og byggðu þar framtíðarheimili fyrir sig og fjölskyldur sínar. Þeir menn og konur, er stóðu fyrir hátíðahaldinu þótti vel við eiga að nöfn allra landnema væru greind í bókinni og barna þeirra minnst.*

*Nokkrar fjölskyldur höfðu gleymst eða fallið úr, og var því ákveðið að gefa út viðbæti við bókina, og er þar minnst þeirra frumbyggja er ekki var áður getið og barna þeirra. Þessi viðauki er aðeins prentaður á íslenzku. Tímabil það sem hér er minnst er frá því er fyrstu íslenzku landnemarnir komu hér árið 1887 og til 1910. Eftir þann tíma hefði verkið orðið mikið umfangsmeira; þessi 24 ár, sem voru frumbyggjaárin, ættu ekki að falla í gleymsku.*

*Annað sem þurfti að bæta úr í fyrri parti bókarinnar, var að gefa eins góðar skýringar og unnt væri á því, hvaðan það fólk, sem þar er getið, kom af gamla landinu og af ætt þeirra og heimili á Íslandi. Þetta hefir verið mjög seinlegt verk, og í stöku tilfellum verið ómögulegt að fá áreiðanlegar upplýsingar um ættir allra; gamla fólkið er dáið fyrir mörgum árum, sumt af yngri kynslóðinni flutt í burt í fjarlæga staði eða borgir á þessu mikla landi. Verður því lesandinn að taka það til greina. Ættartölurnar eru að mestu leyti áreiðanlegar, eða eru teknar eftir nánustu ættingjum, er bezt vissu um fólk sitt, og er gengið út frá því sem réttu, Allt það fólk á þakkir skilið fyrir þá hjálp, sem það hefir veitt.*

*Nokkuð af eldra fólkinu, er kom hingað ungt, er enn á lífi og hefir lagt til það sem það gat um sínar ættir og annara. Sérstaklega hafa þrjár konur í byggðinni gert sér mikla fyrirhöfn og mikið verk við að ná saman upplýsingum. Þær eru, Mrs. Rannveig Guðmundsson, Mrs. Ingimundur Sigurðsson og Mrs. Ljótunn Sveinsson, eiga þær allar miklar þakkir skilið fyrir störf sín við bókina.*

*Herra Gísli Jónsson hefir annast prófarkalestur, gert leiðréttingar í lesköflunum, þar sem þörf krafðist, og ennfremur þýtt erindi hr. Páls Reykdals um fiskiveiðarnar.*

**Skúli Sigfússon**

# Kirkjur og prestar

## Lúterska kirkjan og prestar hennar



**Séra Jón Jónsson**



**Þorbjörg María Einarsdóttir**

SÉRA JÓN JÓNSSON var einn af landnemum þessarar byggðar, kom frá Íslandi árið 1900 og settist hér að og byrjaði búskap með börnum sínum. Hann hélt uppi messum á sunnudögum og öðrum helgidögum; jafnframt vann hann að því, að myndaður væri hér lúterskur söfnuður og var það að miklu leyti hans áhrifum að þakka, var hann því fyrsti fastur prestur þessarar byggðar meðan heilsa leyfði. Sömuleiðis kom hann á sunnudagaskóla, sem hefir haldið áfram með góðu skipulagi. Að skrifa um hann sem prest, er mér ofvaxið og tek ég því upp hér grein eftir séra Hjört Leo, sem er í Sameiningunni og er rituð eftir dauða hans, í ágúst 1922 og set ég hér greinina orðrétta:

„Séra Jón Jónsson andaðist á sjúkrahúsinu í Winnipeg 3. marz síðastliðinn. Helztu æviatriði hans eru þessi: Séra Jón var fæddur 15. júlí 1856 í Holti við Reykjavík á Íslandi. Foreldrar hans voru þau Jón S i g f ú s s o n Gunnlaugssonar Oddsen dómkirkjuprests í Reykjavík og Sigríður Jónsdóttir, ættuð

frá Bólstaðahlíð í Húnavatnssýslu.

Undir skóla lærði séra Jón hjá Helga E. Helgasyni, barnaskólakennara í Reykjavík, og gekk inn í lærðaskólann 1874. Þaðan útskrifaðist hann árið 1881. Byrjaði nám á prestaskólanum 1882 og útskrifaðist af þeim skóla 1886. Hann kvæntist sama ár Þorbjörgu Maríu Einarsdóttur Guttormssonar frá Hrafnsgerði í Norður-Múlasýslu og vígðist til Kvíabekkjar í Ólafsfirði í Eyjafjarðarsýslu. Var hann þar prestur í þrjú ár. Næst fékk hann veitingu fyrir Hofi á Skagaströnd og var þar prestur til ársins 1896, fór svo til Vesturheims árið 1900 og flutti til Álftavatnsbyggðar, þar sem hann eyddi sínum síðustu ævidögum.

Ég kynntist séra Jóni heitnum allnákvæmlega, sem eðlilegt var, því hann hafði gert tilraunir eftir að hann kom til Álftavatnsbyggðar, að koma hér á fót ákveðinni kristindómsstarfsemi, og hjálpaði mjög til þess, eftir að ég kom hingað, þó svo mætti virðast, að það væri niðurlæging fyrir hann sjálfan. Get ég þess, er ég rita um hann látinn, til að sýna hvað róttæk trú hans var og kærleikur til þeirra trúarbragða, er hann hafði vígst talsmaður fyrir. Prédikanir hans voru að mínu viti góðar, þó Grikkjum í Areopagus hefði ekki fallið þær í geð. Svo fer ætíð, þegar eitthvað nýtt er heimtað af kristninni til dægrastyttingar. En hann hafði eitt umtalsefni: Krist og hann krossfestan, og vildi ekki annað prédika, enda þótt opin braut hefði legið til vegsauka með því móti. Hann var þrekmaður á yngri árum og starfaði mikið. Eftir að hingað kom og börn hans þrjú komust á fullorðinsár, gátu þau tekið við starfi að sama skapi og heilsu hans hnignaði. Hann þráði mjög að komast til Íslands, eyða þar ellidögunum og deyja þar. Öllu íslenzku unni hann, fannst að hérnamegin hafsins væri hann gestur og framandi; hann þráði enn meir föðurlandið himneska, þannig fór einnig Móse á Nebó.

Við sálarsýn öldungs, er kraftar þverra, blasa þau tvö, ættlandið himneska og föðurlandið jarðneska. Og Drottinn kallar þá heim til sín. Og deyjandi biðja þeir hann fyrir hinu jarðneska föðurlandi".

Séra Jón var jarðsettur í grafreit Lundarsafnaðar 9. marz 1922, að viðstöddu fjölmenni. Sveinn elzti sonur hans lifir enn á Lundar, hann hefir selt akuryrkjuverkfæri hér í meir en fjórðung aldar, hann er góðviljaður fólki og vill öllum vel. Kona hans er Júlíana Jónsdóttir Sigfússonar. Ætt hennar má finna á bls. 46. Þorsteinn er yngri sonur Jóns og er nú búsettur í Húsavík í Nýja-Íslandi, giftur Ingu Ísfeld. Sigríður var yngst barna hans, gift Gunnari Gunnlaugssyni. Þau búa í Winnipegborg.

Á fyrstu árum Álftavatnsbyggðar var lítið hér um opinberar Guðsþjónustur, fólk hér var búsett langt út í óbyggðum. Flestir unnu af kappi að því, að koma sér upp heimilum. Vegalengd til Winnipeg er um og yfir 80 mílur, sátu því kirkjumál á hakanum fyrir öðrum framkvæmdum. En þó



**Lúterska kirkjan á Lundar**

munu flestir hafa haldið uppi húslestrum á heimilunum; og eftir að samkomuhús byggðarinnar komst upp voru húslestrar hafðir um hönd í því nálega á hverjum sunnudegi og öðrum helgidögum yfir sumarmánuðina og voru ýmsir sem lásu, oftast þó Jón Sigurðsson frá Geysi, Halldór Halldórsson, Snjólfur Sigurðsson, Ingibjörg Líndal og fleiri.

Ingibjörg gerði prestsverk, skírði börn, annaðist um jarðarfarir og uppfræddi unglinga í kristindómi. Einstöku sinnum heimsóttu prestar Lúterska kirkjufélagsins byggðina, og má nefna þá séra Friðrik Bergman, séra Rúnólf Marteinsson, séra Odd Gíslason, séra Magnús Skaptason, er þá var lúterskur prestur og fleiri kirkjufélags prestar.

Séra Jón Jónsson kom í byggðina árið 1900 frá Hofi á Skagaströnd. Hann gerði eftir það öll prestsverk og messaði í samkomuhúsi byggðarinnar og oftast fyrir litla eða enga borgun. Hann vann að því að koma hér á söfnuði og kom því í framkvæmd með aðstoð kirkjufélagsins, var séra Rúnólfur sendur honum til aðstoðar, síðar gekk söfnuðurinn í Lúterska kirkjufélagið.

Séra Hjörtur Leo og séra Guttormur Guttormsson þjónuðu söfnuðinum tvo mánuði á hverju sumri í nokkur sumur, þar til séra Adam varð hér fastaprestur .

Lúterska kirkjan varð byggð í Lundarþorpi árið 1913 undir umsjón Guðmundar K. Breckman og Jóns Halldórssonar. Smiðir voru Kristinn Oliver og föðurbróðir hans, Þorgils Oliver. Stærð hússins var 32x36 fet og sæti í henni fyrir 250 manns. Allir peningar voru frjáls samskot frá safnaðarmönnum og utansafnaðar. Þegar byggingin var búin kostaði hún $3000 og voru þá til peningar til að borga allt nema $100. Bauðst þá



**Altari í Lút. kirkjunni**

Guðmundur Breckman á safnaðarfundi til að taka við þessari skuld og borga hana, tilboð hans var þakksamlega þegið, hann hafði þó áður lagt fram fé eins og aðrir. Um sama leyti eða litlu síðar var lúterskur söfnuður myndaður í Grunnavatnsbyggð og kirkja reist þar, og stendur hún eina mílu fyrir norðan Ottopósthús. Húsið var byggt af frjálsum samskotum og er það myndarleg bygging og er grafreitur fast við kirkjuna. Séra Hjörtur Leo þjónaði söfnuðinum meðan hann var þjónandi prestur á Lundar og aðrir er síðar veittu þjónustu því prestakalli.

Sunnudagaskóli var settur á stofn á Lundar af Lúterska söfnuðinum í júní 1912 undir umsjón Jóns Halldórssonar og Sigríðar Hnappdal. Jón veitti sunnudagaskólanum forstöðu í átján ár, og sá vel um að aldrei væri skortur á kennurum. Kristjana Fjelsteð tók við umsjón skólans þegar Jón Halldórsson flutti frá Lundar. Mrs. Sigríður Hnappdal kenndi á skólanum þar til hún lézt. Síðan hefir Kristín Fjelsteð kennt þar ásamt mörgum öðrum konum byggðarinnar.

Það fólk, sem að ofan er nefnt, og margir fleiri, er stutt hafa skólann, eiga miklar þakkir skilið frá söfnuðinum á Lundar og mörgum öðrum, sem ekki tilheyra Lúterska söfnuðinum. Allir prestar, sem þjónað hafa söfnuðinum, hafa verið sterkir stuðningsmenn skólans, og gert allt sem þeir gátu til að efla kristindómsmál í þessu byggðarlagi; hafi þeir allir miklar þakkir fyrir starf sitt.

**Skúli Sigfússon**



**Séra Hjörtur, kona hans og barn**

SÉRA HJÖRTUR LEO var fæddur 6. janúar 1875 á Hofi á Skagaströnd í Húnavatnssýslu. Foreldrar hans voru Jónas Leo Hjálmarsson og Sæunn Sig- Sigurðardóttir, frá Daufá í Skagafirði. Með þeim flutti hann til Vesturheims 8 ára gamall. Námu foreldrar hans land í grend við Gimli og bjuggu þar nokkur ár. Fluttu síðan til Selkirk, mun Hjörtur þá hafa verið 15 ára; áttu þau heimili í þeim bæ til dauðadags.

Snemma mun hafa borið á fágætum námshæfileikum hjá Hirti. Því eftir aðeins tólf til fjórtán mánaða nám á barnaskóla, stóðst hann inntökupróf í miðskóla (Collegiate) í Winnipeg. Að miðskólanámi loknu stundaði hann skólakennslu, og fékk fljótt orð á sig sem ágætur kennari. Var hann skólastjóri á Gimli, árið 1900, mun hann hafa gengt þeirri stöðu um nokkurra ára skeið.

Haustið 1905 hóf hann nám við Wesley College í Winnipeg og lauk þar burtfararprófi árið 1907, hlaut hann þá nafnbótina Bachelor of Arts frá háskólanum. Voru stærðfræði og mælingafræði hans uppáhalds námsgreinar, og munu fáir námsmenn hafa staðið honum framar í þeim greinum. Að loknu námi við Wesley College, stundaði hann guðfræðisnám við Lúterska prestaskólann í Chicago og lauk þar þriggja ára námi á tveimur árum. Var prestvígður í St. Pauls kirkju, Minneota, af forseta kirkjufélagsins, séra Birni B. Jónssyni, 2. maí 1909. Þjónaði hann Konkordíu og Þingvallasöfnuðinum í Saskatchewan næstu árin. Hann hélt áfram námi samhliða prestsskapnum, stundaði hann þá Hebreskunám og kirkjulega fornfræði. Manitobaháskólinn sæmdi hann „Magisters artium“ nafnbótinni fyrir ritgjörð um Jóhannesarguðspjall. Auk prestakallsins í Saskatchewan, þjónaði hann þrívegis um hríð söfnuðum vestur á Kyrrahafsströnd, í Blaine, Point Roberts og Vancouver. Síðar var hann starfandi prestur safnaðanna við Manitobavatn, og síðast um allmörg ár á Lundar. Samhliða prestsskapnum stundaði hann kennslu og var það annað ævistarf hans. Tvisvar kenndi hann við Jóns Bjarnasonar skólann í Winnipeg, eitt ár sem skólastjóri, einnig kenndi hann við miðskóla á Lundar.

Séra Hjörtur kvæntist 17. september 1923, Stefaníu Jónínu, dóttur Björns Jónssonar frá Skáney í Reykholtsdal, Borgarfjarðarsýslu og konu hans, Ólafíu Stefánsdóttur frá Kalmannstungu. Bjuggu þau hjón myndarbúi um langt skeið nálægt Churchbridge í Saskatchewan. Séra Hjörtur og Stefanía eignuðust einn son, heitir hann Hjörtur Björn Jónas.

Séra Hjörtur dó að heimili sínu á Lundar 5. maí 1931 eftir langa vanheilsu. Var hans sárt saknað, ekki einungis af hans nánustu, heldur einnig af hinum stóra hóp af vinum, sem hann hafði eignast um ævina, sem höfðu lært að meta manngildi hans og gáfur.

Ég skrifaði fáein orð um séra Hjört í fyrra hefti Lundarbókarinnar, ætla ég því að leyfa mér að taka upp nokkrar setningar úr greinum, sem skrifaðar hafa verið um hann, af mönnum, sem eru svo miklu færari en ég.

Magnús J. Bjarnason skrifaði „Endurminningar um séra Hjört Leo“, sem birtist í Eimreiðinni 1932. Meðal annars segir hann: „Séra Hjörtur batt ekki bagga sína sömu hnútum og samtíðarmenn hans yfirleitt, og þess vegna misskildu sumir hann. Hann gat aldrei fengið sig til, að fylgja ýmsum listareglum tízkunnar, og honum var mjög illa við allt yfirskinstildur og hégómadýrkun. Hann hlífðist heldur ekki við að láta óbeit sína á því í ljós, hvar og hvenær sem var. Hann átti marga og einlæga vini. Og hann var ávalt sannur vinur vina sinna. Séra Hjörtur var, að mínu áliti, frábær gáfumaður og lærdómsmaður, ágætur kennari og snjall ræðumaður, en hann var framar öllu skáld og mannkostamaður“.

Í grein Magnúsar J. Bjarnasonar, eru nokkur kvæði eftir séra

Hjört. Eitt kvæði hans, „Ísland", var flutt á Íslendingadegi í Selkirk 17. júní 1897, í því er þetta erindi:

„Eitt sannleiksfræ er betra gulli björtu,
og bitrust reynsla dýrust auðlegð vor;
vér lærum oft af sorgarmyrkri svörtu
að setja traust á eigin kraft og þor.
Því sérhver þraut, sem þrekið yfirbugar. —
svo þyrnum stráða gatan verði greið, —
hún friðar oss og frýr oss oftar hugar
að feta að settu marki rétta leið".

Að endingu vil ég setja nokkur ummæli um séra Hjört eftir Dr. Guðmund Paulson, sem var nemandi hans og vinur:

„Séra Hjörtur Leo var framúrskarandi maður á sviði mennta og menningar. Hann var fluggáfaður, hafði unun af að læra, og persónugildi hans gerði hann eftirtektarverðan. Þessir kostir, samfara hans ágætu menntun, gerðu hann að ógleymanlegum kennara. Hann gat skilið hlutina frá sjónarmiði nemandans, og hafði mikil áhrif á líf þeirra, er þráðu æðri menntun og betri lífsskilyrði.

Hann var glaður í viðmóti og spaugsamur og laðaði að sér eldri og yngri. Sérstaklega þótti honum vænt um áhugasama nemendur, sú hjálp, er hann veitti þeim var ótakmörkuð. Það mætti líkja honum við gáfaðan Víking, sem siglir burt til að kanna haf lærdóms og vísinda, á líkan hátt og Víkingar leituðu nýrra landa, frægðar og frama.

Séra Hjörtur var ágætur ræðumaður, og var gæddur þeirri gáfu, að útlista skýrt og greinilega námsgreinar nemendanna, því er ekki að furða þó hann væri óvanalega góður kennari. Lærdómur í hans augum var eftirsóknarverður, án tillits til framtíðarhagnaðar, sem of oft gleymist á nútíðar menntastofnunum. Hann bar ætíð umhyggju fyrir velferð nemenda sinna, eftir að þeir byrjuðu lífsstarf sitt og var þeim alltaf hjálpsamur og vinveittur.

Jafnframt því að vera mikill áhrifamaður opinberlega, hafði hann sérkennilega mikil og bætandi áhrif á nemendur af íslenzkum stofni. Hann var ávalt mikils metinn í samkvæmum stúdenta og menntamanna. Hans vingjarnlega viðmót og hjálpsemi, laðaði að sér þá, sem umgengust hann. Návist hans og hans göfuga hjartalag útilokaði allan ótta, efasemdir og áhyggjur, sem lífinu eru samfara".

**L. Sveinsson**

SÉRA ADAM ÞORGRÍMSSON er fæddur 8. júlí, 1879 að Nesi í Aðaldal í Suður-Þingeyjarsýslu. Foreldrar hans voru Þorgrímur Pétursson og Hólmfríður Jónsdóttir. Kona hans Sigrún er fædd 1. september 1886 á Mýri í Bárðardal í Suður-Þingeyjarsýslu. Foreldrar hennar voru Jón Jónsson frá Mýri og Hólmfríður Magnúsdóttir.

Adam vann að kennslu- og ritstörfum á Akureyri unz hann flutti vestur um haf vorið 1913. Hann stundaði guðfræðinám í Chicago og var vígður til prests í Winnipeg vorið 1919 og tók þá við þjónustu lúterska safnaðarins í Siglunes- og



**Séra Adam Þorgrímsson**



**Sigrún Jónsdóttir**

Reykjavíkurbyggðum við Manitobavatn. Árið 1923 tók hann við Lundar prestakalli og þar dó hann 20. nóvember, 1924. Ekkja hans, Sigrún, býr nú í Winnipeg.

Séra Adam var vel ritfær og kennari góður. Smákver hans „Y og Z“ og smásögusafnið „Æfintýri frá ýmsum löndum“, voru gefin út á Akureyri og Stafrófskver, miðað við hæfi vestur-íslenzkra barna kom út í Winnipeg. Á Akureyri kenndi hann við Iðnskólann í nokkur ár og í Siglunesbyggð setti hann upp skóla fyrir unga menn þar nyrðra, sem farið höfðu á mis við skólamenntun á landnámsárunum.

Börn þeirra Adams og Sigrúnar eru sem hér fylgir, talin eftir aldursröð:

Sif dó í barnæsku.

Heimir á heima í Wpg., giftur Laufey Líndal frá Lundar, þau eiga þrjár dætur.

Hrund, á heima að Geysir, Man. Gift Jónasi Skúlasyni. Þau eiga fimm börn.

Freyr, á heima að Boissevain, Man. Giftur Grace Hutchinson frá Langruth, Man. Þau eiga þrjú börn.

Sif, dó 1939. Hún var gift Ásgeir Gudjohnsen og eru tvö börn þeirra á lífi.

Þór, á heima í Wpg. Giftur Pamela Thomas frá Devonshire á Englandi. Þau eiga einn son.

Bragi, á heima í Wpg. Giftur Rose Messenger frá London á Englandi. Þau eiga einn son.

Sigrún Ada, ógift, á heima í Wpg. Þrjú yngstu börnin eru fædd í Manitoba en hin á Íslandi.

## Unitara- og Sambandskirkjan og prestar hennar



**Sambandskirkjan á Lundar**

Árið 1909 var Unitarasöfnuður stofnaður í Grunnavatnsbyggð, fyrir austan Lundar. Var séra Albert E. Kristjánsson ráðinn prestur safnaðarins og árið 1913 var farið að ræða um kirkjubyggingu. Vann safnaðarfólk endurgjaldslaust við að flytja efni og starfa að byggingunni. Árið 1915 var kirkjusmíðinni lokið að mestu leyti og gjafavinnu þeirra er unnu málefninu, og var fyrsta messan í kirkjunni flutt af séra Albert seinnipart sumars 1915. Vann hann ósleitilega að frjálslynd um málum í Grunnavatns og Álftavatnsbyggðum, enda var hann virtur af öllum, er á hann hlýddu, því hann er einn af mestu mælskuskörungum Íslendinga, víðsýnn og postuli réttlætis og kærleikans.



**Albert og Anna Kristjánsson**

Árið 1931 var kirkjan flutt til Lundar og söfnuðurinn í Grunnavatnsbyggð, sem nefndur var „Ljósvaka" sameinaðist Unitarasöfnuðinum við Mary Hill í Álftavatnsbyggð. Tók séra Guðmundur Árnason við prestsþjónustu fyrir þennan sameinaða söfnuð, er séra Albert Kristjánsson flutti alfarinn vestur að hafi 1928. Yfir meira en 30 ára skeið þjónuðu þessir tveir prestar dyggilega þessari kirkju og er það merkileg saga, ef öll væri sögð. Kirkjan er myndarleg bygging, 32 fet á lengd og 24 á breidd. Góður og stór söngpallur er einnig í kirkjunni og hefir viðgerð og eftirlit verið í bezta lagi frá því hún var byggð. Margir einstaklingar lögðu mikið í sölurnar til að þetta Guðshús kæmist í framkvæmd og gæti hýst þær frelsishugsjónir, sem áttu að vísa mönnum veg og hjálpa þeim í lífsbaráttunni. Er það þakklætisvert að kirkjan hefir notast til þessa starfs og stendur enn örugg fram á þennan dag og opnar dyr sínar fyrir öllum, sem elska frelsi og framför.

**B. E. Johnson**

SÉRA GUÐMUNDUR ÁRNASON var fæddur 4. apríl 1880 að Munaðarnesi í Mýrasýslu við Borgarfjörð. Foreldrar hans voru þau Árni Þorláksson frá Minna-Knarra nesi á Vatnsleysuströnd og Helga Kjartansdóttir frá Munaðarnesi. Föðurætt hans er öll úr Gull-



**Sr. Guðm. Árnason og kona hans**

bringusýslu, en móðurætt hans er Borgfirzk.

Kona séra Guðmundar, Sigríður, er ættuð frá Leirá í Borgarfirði. Foreldrar hennar voru Einar Sæmundsson og Guðrún Magnúsdóttir.

Börn séra Guðmundar og Sigríðar eru: Einar, útskrifaður verkfræðingur af Manitobaháskólanum. Gat sér orðstír í síðasta ófriði og var sæmdur orðu fyrir uppfyndingar. Giftur Þóru Magnússon og eru þau búsett í Winnipeg; Helga, útskrifuð frá Manitobaháskóla, hefir gert talsvert af listmálningu. Gift R. Miller í Winnipeg; Hrefna lærð hjúkrunarkona, gift Páli kaupmanni Einarsson á Oak Point við Manitobavatn.

Séra Guðmundur útskrifaðist frá Unitara prestaskólanum í Meadville árið 1908 og hlaut námsverðlaun, er gjörði honum mögulegt að fara til Þýzkalands til framhaldsnáms. Hann þjónaði Unitara söfnuðinum í Winnipeg og í mörg ár söfnuðunum í Álftavatnsbyggðinni og víðar. Sigríður kona hans var hjálpsamur og trúfastur förunautur og hefir ávallt tekið virkan þátt í félagsmálum og sérstaklega í kvenfélagsmálum. Hún er gædd frábærum hæfileikum sem listmálari.

Séra Guðmundur var einn af allra vinsælustu leiðtogum Íslendinga vestan hafs. Hann var virtur af öllum fyrir prúðmennsku, hreinskilni og heilbrigð áhrif. Hann tók mikinn þátt í öllum félagsmálum Íslendinga. Hann var málsnjall og ráðhollur á öllum málstefnum og naut vináttu manna úr öllum flokkum og stéttum fram yfir aðra íslenzka leiðtoga. Hann var óefað einn hinna ritfærustu manna, á meðal Íslendinga vestra. Er talsvert til eftir hann af ritgerðum og þýddum sögum og einnig þó nokkuð af ljóðaþýðingum. En endurminningin um séra Guðmund mun lifa lengst, sem hins göfuga og trúfasta fræðimanns, er barðist hinni góðu baráttu fyrir frelsi og réttlæti.

SÉRA HALLDÓR E. JOHNSON var fæddur á Sólheimum í Blönduhlíð í Skagafirði 12. sept. 1887. Foreldrar hans voru Jón Jónsson Sveinssonar, bróður Benedikts sýslumanns og alþingismanns Sveinssonar, og Ingunn Bjarnadóttir, systir Símonar Dalaskálds.

Á uppvaxtarárunum gekk hann á gagnfræðaskólann á Akureyri, og fluttist svo, tvítugur að aldri,



**Séra Halldór E. Johnson**

vestur um haf. Fyrir tilstyrk móðurbróður síns, Þorláks Björnssonar að Hensel, N. D., gekk hann á Valparaiso háskólann í Indianaríkinu og, að námi loknu þar, á lúterskan prestaskóla í Chicago.

Um nokkur ár var hann þjónandi prestur ísl.-lúterska Kirkjufélagsins, en mun brátt hafa fundist þar nokkuð þröngt um sig, og hætti því prestskap um hríð. Nokkru síðar gekk hann inn með frjálstrúar félagsskapnum og var fyrst um sinn umferðarprédikari, en síðustu þrjú eða fjögur árin (1945—48) fastur sóknarprestur í Sambandskirkjunni á Lundar. Eftir að hann settist þar að, tók hann mikinn þátt í félagsmálum bygðanna. Hann var um tíma skrifari stjórnarnefndar Þjóðræknisfélagsins og átti drjúgan þátt í stofnun og viðhaldi deildarinnar þar. Hann vann af miklum áhuga að undirbúningi og framkvæmd Sextíu ára Minningarhátíðar bygðarinnar, og síðar var hann driffjöðrin við útgáfu „Jubilee"-bókarinnar, skrifaði formálann og nokkrar greinar í henni, og sá að nokkru leyti til með prentun og útgáfu hennar.

Í júlímánuði síðastliðið sumar fór hann heim til Íslands og settist að í Vestmannaeyjum, þar sem hann átti frændfólk fyrir. En 8. janúar í vetur (1950) fórst hann á bát, ásamt níu mönnum öðrum, í milli lands og eyja, — þá á 63. aldursári.

Séra Halldór var þríkvæntur, og lifir hann síðasta konan. Ekki varð honum barna auðið. **G. J.**



DR. MAGNÚS HJALTASON sonur Hjalta Hjaltasonar frá Hólum í Steingrímsfirði í Dalasýslu og konu hans Margrétar Helgadóttur frá Melasveit í Dalasýslu, flutti til Canada með foreldrum sínum í kringum 1887. Þau tóku sér heimilisréttarland í Þingvallanýlendu í Sask. og bjuggu þar nokkur ár. Þar dó faðir hans. Þá tók Magnús móður sína til Winnipeg og fór að ganga hér á skóla, svo læknaskóla og vann fyrir sér og móður sinni meðan hann var við skólanám. Magnús útskrifaðist sem læknir um vorið 1909. Flutti það haust til Oak Point, Man. og stundaði þar lækningar þar til hann flutti til Lundar og var eini læknirinn í mörg ár fyrir allt norðurhéraðið, síðar var hann nokkur ár í Glenboro, en er nú aftur sestur að í Winnipeg.

Magnús er ágætur læknir, en er sérstaklega viðurkenndur fyrir glöggskyggni á sjúkdómum. Í



Dr. og Mrs. Hjaltason

þeirri grein sagði Dr. B. J. Brandson að hann væri einstakur í sinni röð.

Magnús var fyrsti íslenzki læknirinn, sem kosinn var heiðursfélagi í Læknafélagi Manitobafylkis.

Til þess að láta Magnús njóta viðurkenningar eins og hann á skilið er nauðsynlegt að þekkja hann vel, en það hefir fáum tekist og engum til fulls. Kona Magnúsar er Þórunn Thorkelsson, dóttir Jóns Thorkelssonar (sjá bls. 64). Börn þeirra eru: Margrét, gift Frank Toones; Björg, gift Kristjáni G. Martin; Jón Hjalti, skólakennari, ógiftur; Grace Karitas, skólakennari, ógift; Pearl, fjölritari, ógift.



# Landnemar og afkomendur þeirra með ættfærslu—framhald

Safnað hefir SKÚLI SIGFÚSSON

TEITUR SIGURÐSSON, fæddur 15. febrúar 1854 á Litlanesi við Breiðafjörð í Strandasýslu, þar sem foreldrar hans bjuggu. Faðir Teits var Sigurður Sigurðsson frá Bjarneyjum á Breiðafirði, sú ætt er norðan úr Eyjafirði. Húnbjörg Guðmundsdóttir var kona Sigurðar og móðir Teits. Teitur kvæntist sumarið 1884 Guðrúnu Þorsteinsdóttur, uppeldisdóttur Eysteins Halldórssonar á Arnbjarnarlæk og konu hans Hallgerðar Jónsdóttur. Teitur flutti til Ameríku 1888. Þau hjón bjuggu 15 ár í Winnipeg. Fluttu til Lundar 1903 og bjuggu þar í 5 ár, fluttu svo til Selkirk, og til Sturgis, Sask., 1920. Börn þeirra voru átta. Þrjú dóu ung, hin sem komust til fullorðinsára eru: Jóhanna, giftist hérlendum manni, þau bjuggu í Sask. Helga gift hérlendum manni, Mr. Haughs, þau búa í Sask. Óli, er bóndi við Sturgis, Sask. Alan féll í heimsstyrjöldinni í sept. 1917 á Frakklandi, hann var sjálfboðaliði í canadíska hernum. Kristján dó af bílslysi 1923 í grend við Yorkton Sask.

JÓN OLSON SIGFÚSSON Jónssonar frá Teigaseli, flutti í þessa byggð árið 1903 og bjó hér til dauðadags. Kona Jóns var Soffía Árnadóttir Jónssonar bónda að Gilsárvallahjáleigu í Borgarfirði, bæði voru þau úr N.-Múlasýslu. Móðir Jóns var Guðrún Jónsdóttir bónda á Hlíðarhúsum í Jökulsárhlíð. Þau hjón bjuggu um nokkur ár í Winnipegborg, áður en þau fluttu í Álftavatnsbyggð, og starfræktu mjólkurbú, sem gaf þeim góðan afrakstur. Heimili sitt hér nefndu þau Hofteig; ekki varð þeim barna auðið, en fóstruðu tvo drengi, Þorstein Jóhannsson, hann kvæntist hér í byggð, ætt hans er á bls. 57, hinn fóstursonur þeirra var Guðjón Jónsson, hann giftist hér. Þeir fluttu báðir til Maidstone Sask. og búa þar.

Jón var hálfbróðir Eyjólfs Eyjólfssonar, Olson, sem síðar getur.

ÓLAFUR HALLSSON, kaupmaður á Eiríksdale, Man., fæddur á Seyðisfirði í N.-Múlasýslu 1. okt. 1885, sonur Halls Ólafssonar, Hallssonar bónda á Efri-Hömrum í Rangárvallasýslu og konu hans Kristjönu Björnsdóttur Þorleifssonar kaupmanns Jónssonar á Bíldudal.

Ólafur kom hingað vestur með foreldrum sínum árið 1903 og vann við verzlunarstörf hjá Helga Einarssyni kaupmanni á Narrows, Man., og hvarf svo heim til Íslands aftur árið 1907 og vann þar við verzlun Ditlev Thomsens konsúls í Reykjavík þar til hann hvarf aftur til Canada árið 1910.

Hann kvæntist í Reykjavík 1908



Guðrúnu dóttur Björns Ívarssonar bónda á Vaði í Skriðdal í S.-Múlasýslu og konu hans Ingibjargar Bjarnadóttur frá Viðfirði. Þegar þau Ólafur og Guðrún komu frá Íslandi í ágúst 1910 var verið að leggja járnbrautina frá Oak Point norður til Gypsumville. Í desember sama ár byrjaði Ólafur að verzla á brautarstöð, 12 mílur norður af Lundar, þar sem nú heitir Eiriksdale og byggði þar fyrsta íbúðarhús, sem byggt var í þeim bæ. Þau hafa búið þar stöðugt síðan, og hafa tekið drjúgan þátt í því margvíslega starfi, sem útheimtist til að byggja upp og skipuleggja nýbyggð.

Börn þeirra eru:

Hallur, í Eiriksdale, Man., kaupmaður í félagi með föður sínum. Giftur Anna Bell Burton frá The

Pas, Man. Ingibjörg, Wpg., Man. Gift Harry W. McGlynn. Kristjana, í Los Angeles, Calif. Gift Dr. Ingólfi Bergsteinson Ph. D. frá Alameda, Sask. Gyða, í Winnipeg, Man. Gift Geo. O. Ryckman.



JÓN HALLDÓRSSON er fæddur á Íslandi 1874. Flutti vestur um haf með foreldrum sínum árið 1891 og settust þau að í Pembina N.-Dakota. Foreldrar hans voru þau hjónin Halldór Jónsson og Arnbjörg Jónsdóttir, þau bjuggu í Yxnatungu í Víðidal í Húnavatnssýslu. Fólk hans flutti til Manitoba 1896 og settist Jón þá að á Bluff við Manitobavatn, og var hann fyrsti maður, er settist þar að og byggði sér heimili, eftir tvö ár flutti hann þaðan til Narrows, var þar þrjá vetur. Þaðan flutti hann til Langruth, keypti þar land og bjó þar nokkur ár. Þaðan fór hann til Westbourne og svo til Lundar í Álftavatnsbyggð og var þar um 25 ára skeið. Flutti til Winnipeg 1937 og hefir dvalið þar síðan. Jón kvæntist 25. október 1905 Guðlaugu Guðmundssdóttur Finnbogasonar og konu hans Guðlaugar frá Þorgrímsstöðum í Breiðdal í Suður-Múlasýslu, þau hjón fluttu vestur 1887 og námu land að Akrabyggð í N.-Dakota. Börn Jóns og Guðlaugar eru: Halldór Guðmundur, giftur í Wpg.; Sigurjón Normann, giftur í Wpg.; Ólafía Arnbjörg, gift í Wpg.; Sigríður Lilja, gift í Wpg.; Emily Thelma heima; Guðrún Grace, ógift heima og Margrét Pearl heima.

Jón stundaði búskap þegar hann var hér á Lundar, auk þess var hann Agent fyrir Elds- og lífsábyrgðarfélög. Hann gerði út menn til fiskveiða á Manitobavatni í nokkur ár og keypti fisk þeirra. Þau hjón lifa nú í Winnipegborg.

ÞORSTEINN ÞORKELSSON kaupmaður á Oak Point kom í þessa byggð frá Winnipeg og nam land skamt frá Oak Point og stofnaði verzlun þar í þorpinu og aðra á heimili sínu. Þorsteinn var fæddur á Márstöðum í Svarfaðardal. Faðir hans var Þorkell Þorsteins-

son Þorsteinssonar Þorsteinssonar; langfeðgar Þorsteins bjuggu á Márstöðum hver fram af öðrum. Móðir Þorsteins, Guðrún Jónsdóttir, var af hinni svonefndu Tungufellsætt. Þorsteinn ólst upp á Márstöðum hjá foreldrum sínum til 16 ára aldurs, fór þá til Sigurðar Sigurðssonar járnsmiðs á Akureyri og var þar þangað til að hann var útlærður járnsmiður, flutti þá heim og stundaði járnsmíði. Hann giftist árið 1888, Helgu Grímsdóttur frá Egg í Skagafirði. Hann fluttist vestur tveim árum síðar og settist að í Winnipeg, þar andaðist Helga kona hans árið 1893, ári síðar kvæntist hann síðari konu sinni Guðbjörgu Guðmundsdóttur Jónssonar frá Lýtingsstaðakoti í Skaga firði. Hann byrjaði matvöruverzlun í Winnipeg 1897, stundaði það starf í fimm ár, flutti þá til Oak Point, þá var verið að leggja járnbraut þangað, og byrjaði með verzlun þar; hann hélt áfram búskap á bújörð sinni á sama tíma, meðan hann lifði. Börn Þorsteins eru: Grímur af fyrra hjónabandi, hann var kvæntur Soffíu Byron; hún varð skammlíf, þau eignuðst einn son, sem Friðrik heitir, börn Þorsteins af síðara hjónabandi, Njáll, Friðrik og Hekla. Þau fluttust héðan með móður sinni eftir lát manns hennar; ekki er þeim, sem þetta ritar, kunnugt um heimili þeirra.

EYJÓLFUR EYJÓLFSSON var sonur Eyjólfs timburmanns er bjó í Naustahvammi í Norðfirði (og er hans og dætra hans getið í afmælisbókinni). Móðir Eyjólfs var móðursystir Jóns Sigurðssonar, sem getið er á bls. 49. Eyjólfur nam hér land S. W. 30-19-5 og hafði heimili hjá Jóni Sigurðssyni frænda sínum. Eyjólfs er vel getið í Þáttum Winnipeg Íslendinga og gerist því ekki frekar þörf að minnast hans og konu hans. Þau hjón höfðu rausnarheimili í Winnipeg, sem þau nefndu „Eyjólfsstaði“.

HELGI OLSON er fæddur í Winnipeg. Faðir hans var Ólafur Ólafsson (Olson) frá Vestra-Súlunesi í Mela- og Leirárhreppi í Borgarfjarðarsýslu. Móðir Helga og kona Ólafs var Helga Guðmundsdóttir frá Ferjukoti sömu sýslu. Helgi kvæntist Láru dóttur Sigurðar Kristjánssonar Eyford. Hann var fæddur á Veigastöðum á Svalbarðsströnd í Þingeyjarsýslu. Móðir Láru var Bergljót Jónsdóttir, fædd á Oddeyri í Eyjafirði, foreldrar hennar bjuggu á Akureyri og um stutt skeið á Borðeyri, áður en þau fluttu vestur 1905. Helgi og Lára námu hér land og fluttu svo til Oak Point; og eru nýlega flutt til Winnipegborgar. Börn þeirra eru: Silvía, gift Kristjáni Ísfeld í Glenboro; Margrét, ógift heima; Haraldur heima; Thelma, ógift. Þessi hjón tóku land að Vestfold, Sec. 35-18-3 w.

GUNNAR EINARSSON, flutti frá Winnipeg í þessa byggð 1902. Hann var sonur Einars Nikulássonar frá Gíslastöðum á Völlum í Fljótsdalshéraði. Móðurætt hans þekkir ekki sá, er þetta ritar, hann nam land á Sect 18-21 R5 á bakka Álftavatns (Svanlake), er þessi byggð dregur nafn af. Gunnar giftist fyrst Sigríði Guðmundsdóttur

frá Mánaskál í Húnavatnssýslu. Eftir dánardag hennar, kvæntist hann í annað sinn Andea Fischer, dóttur Hermanns Fischer í Reykjavík. Eftir lát hennar kvæntist hann Önnu Brynjólfsdóttur, ekkju Jóns frá Rauðeyjum; þau færðu bú sín saman og lifðu á heimili Önnu. Eftir Nokkura ára búskap dó Anna og flutti Gunnar þá vestur á Kyrrahafsströnd. Hann giftist í fjórða sinn aldraðri konu af enskum ættum, og dó í hárri elli í Winnipeg. Valdimar, sonur Gunnars, kom með honum í þessa byggð og nam land á sama stað og faðir hans. Gunnar kom vestur 1873, dvaldi 4 ár í Ontario, flutti þaðan til Winnipeg. Hann átti landspildu á Portage Avenue og Toronto stræti í Winnipegborg, setti þar upp verzlun og mjólkurbú. Þetta land seldi hann, er hann flutti í Álftavatnsbyggð og fékk hátt verð fyrir, hann var því aldrei í peningaþröng á síðari árum. Stutt stræti í vesturbænum, Einarson Avenue, ber nafn hans.

Því miður eru ekki upplýsingar fyrir hendi til að segja frá börnum hans.

BJARNI LOFTSON Jónssonar er fæddur á Sauðanesi í Svarfaðardal á Íslandi. Móðir hans var Guðrún Þorvarðardóttir úr sömu sveit. Bjarni kvæntist hér í byggð Þóru dóttur Guðmundar Bjarnasonar og Eyjólfínu konu hans. (Sjá bls. 55 í afmælisbók byggðarinnar). Bjarni nam land á Sect 4 Tp 20R4 og hafa þau hjón ávalt búið þar síðan, en eru nú sest að í Lundarbæ. Bjarni er ágætur trésmiður og hefir stundað þær jafnhliða búskapnum á landi sínu. Börn þeirra hjóna eru:

Bjarni, ógiftur, er heima; Inga, gift; Helga, gift Guðmundi Björnssyni. Þau búa á Lundar; Lína, gift Floyd Frances; Guðmundur, ógiftur heima; Stefán, féll í síðasta stríði; Þóra, ógift heima; Konráð, ógiftur heima; Ásta, ógift heima.

SIGURJÓN JÓNASSON Jónssonar frá Fagraskógi í Eyjafirði. Móðir Sigurjóns var Ólöf Sigurðardóttir óðalsbónda á Ási á Þelmörk í Eyjafirði. Ólöf missti mann sinn 1895, og giftist ári síðar Bjarna Guðmundssyni frá Ytra-Brekknakoti í Möðruvallasókn. Þaðan fluttu þau vestur, settust að í Nýja Íslandi. Sigurjón er fæddur 1871 á Miðhálsstöðum í Öxnadal. Kom hér vestur til Canda; var 5 ár á Poplar Park hjá móður sinni. Í Álftavatnsbyggð kom hann 1907 og giftist Jóhönnu Einarsdóttur (sjá bls. 60 í Afmælisbókinni). Þau Sigurjón og Jóhanna tóku við búi foreldra hennar og hafa búið þar ávalt síðan, þau fóstruðu pilt, Victor að nafni, son Kristjáns Guðmundssonar, (ættar hans er getið á bls. 63).

JÓN JÓNSSON bóndi frá Reykjanesi í Barðastrandasýslu og kona hans, Sigurbjörg, komu vestur sumarið 1894. Þau settust að hjá Snæbirni Jónssyni, tengdasyni sínum og konu hans, dóttur sinni, Ingibjörgu. Þau eru bæði dáin fyrir mörgum árum.

GUÐMUNDUR HÁVARÐSON fæddur á Gauksstöðum á Jökuldal í N.-Múlasýslu. Kona hans var María Jónsdóttir Metúsalemssonar bónda í Möðrudal á Fjöllum. Þau

hjón fluttu vestur um eða eftir aldamótin, settust að hér um tíma, fluttu svo í Siglunesbyggð og voru þar nokkur ár, þaðan fluttu þau svo til Fairford og svo til baka og settust að í Lundarbæ og bjuggu þar til æviloka. Guðmundur var gagnfræðingur af Möðruvallaskóla, hann var sannur Íslendingur. Þau áttu þrjá syni: Jón Aðalvarður, giftur Björgu Jónasdóttur Jónssonar landnámsmanns í Siglunesbyggð, þau búa í Lundarbæ. Gunnlaugur, hann hefir tekið sér nafnið George Havard, er giftur franskri konu. Hann missti hendina í fyrra heimsstríðinu, er hann greip sprengju og henti henni úr víginu og frelsaði félaga sína frá bráðum bana. Sigurður er yngstur þeirra bræðra, hann er ógiftur og á heima í Winnipegborg.

JÓN STEFÁNSSON. Fæddur á Gilsstöðum í Norðurárdal í Mýrasýslu. Foreldrar hans voru Stefán Valdason og kona hans Þóra Tímóteusdóttir, er bjuggu á Gilsstöðum. Kona Jóns Stefánssonar var Guðbjörg Jónsdóttir Jónssonar og konu hans Kristjönu Ólafsdóttur Jónssonar Sveinssonar frá Hrísum í Helgafellssveit, þaðan fluttu þau hjón til Ameríku og settust að norður við Íslendingafljót. Jón flutti árið 1904 í Grunnavatnsbyggð og bjó þar til dauðadags. Börn Jóns Stefánssonar og Guðbjargar konu hans: Jónína í Winnipeg; Kristjana í Prince George, B.C.; Stefán, giftur Agnesi Hartman, búa að Lillisve; Helga, gift William Skarfe, búa að Lillisve Post Office í þessari byggð.

ÞORSTEINN EYJÓLFSSON. Foreldrar hans Eyjólfur Kristjánsson og Lukka Gísladóttir, þau bjuggu að Breiðavaði í Eiðaþinghá í Múlasýslu. Kona Þorsteins var Kristjana Jónsdóttir, þau fluttu í þessa byggð 1903; þau eru bæði dáin. Börn þeirra eru: Ragnar, giftur Þorkelínu Magnúsdóttur (Sjá bls. 70); Jón, giftur hérlendri konu; Albert, ógiftur; Kjartan, ógiftur; Tómas og Kristófer, báðir dánir; Björn, giftur hérlendri konu; Árni og Haraldur, báðir ógiftir; Jóna, ekkja eftir Valtýr Johnson; Margrét, gift hérlendum manni. Systkinin, sem á lífi eru búa í Prince Rupert, nema Margrét, hún er búsett í Vancouver, B.C.

KRISTJÁN STEFÁNSSON Kristjánssonar, ættaður úr Þistilfirði í Þingeyjarsýslu. Kona hans var Rannveig Eiríksdóttir Hallssonar frá Hrærekslæk í Hróarstungu N.-Múlasýslu, þau giftust í Winnipeg og fluttu hingað í þessa byggð um aldamótin. Kristján var smiður góður og stundaði þá atvinnu fyrri part ævinnar og jafnvel eftir að hann byrjaði búskap, fór hann stundum út í smíðavinnu. Börn þeirra hjóna eru: Ingi, dáinn; Anna, ógift; Stefán, ógiftur; Eiríkur, giftur Sigrúnu Sigurðsson; hann er verzlunarmaður á Gimli; Kristján, giftur Láru Eggertson, búa í Winnipeg. Guðmundur, giftur Clöru Sigurðsson í Winnipeg.

JÓHANN PÁLSSON, flutti í þessa byggð um aldamótin eða 1899. Hann keypti tvö lönd og byrjaði á þeim búskap. Hann var mál-

ari og hafði stundað þá atvinnu um 20 ára tímabil í Winnipegborg. Hann kom vestur árið 1880, eða svo minnir þann, er ritar þessar línur. Jóhann var sonur Páls Guðmundssonar frá Eyjólfsstöðum á Völlum Suður-Múlasýslu og konu hans. Sem ástæðu fyrir nýbreytni hans, að byrja búskap sagði hann, að sig langaði til að komast úr borgaröngþveitinu og hafa næði í ellinni. Hann var góður Íslendingur og bókamaður mikill. Nú er hann dáinn fyrir fáum árum.

JÓN SIGFÚSSON er frá Nesi í Norðfirði í Suður-Múlasýslu, sonur Sigfúsar Sveinssonar Skúlasonar og konu hans Ólafar Sveinsdóttur Bjarnasonar frá Viðfirði í sömu sveit. Þau hjón bjuggu á Nesi yfir 40 ár. Kona Jóns Sigfússonar var Anna Soffía Kristjánsdóttir og var systir Kristjáns Alberts, er lengi var í Winnipeg; þau voru ættuð af Látraströnd við Eyjafjörð.

SKÚLI SIGFÚSSON yngsti sonur Sigfúsar og Ólafar frá Nesi í Norðfirði. Skúli giftist Guðrúnu Guðmundsdóttur Bjarnasonar, hann bjó mest af ævi sinni í Reykjavík, var af Laugdælaætt, hún var stjúpdóttir Arnórs Árnasonar frá Chicago. Móðir Guðrúnar var Margrét Jónsdóttir Brandssonar timburmanns, ættuð úr Húnaþingi; og Guðrúnar Pétursdóttur konu hans af fyrra hjónabandi Margrétar.

HINRIK JÓNSSON var ættaður af Ísafirði. Oddný Ásgeirsdóttir kona hans var frá Lundum í Stafholtstungum. Þau giftust í Winnipeg 1888.

EINAR KRISTJÁNSSON frá Bakkakoti í Andakílshrepp í Borgarfjarðarsýslu flutti til Canada 1887 og í þessa byggð með konu sinni, Guðrúnu Helgadóttur, fædd í Neðranesi í Stafholtstungum í Mýrarsýslu. Með þeim komu vestur þrjú börn þeirra: Helgi Einarsson er enn á lífi, en hin systkinin, Katrín og Kristján eru dáin.

HALLDÓR HALLDÓRSSON fæddur að Gili í Bolungarvík í Ísafjarðarsýslu, foreldrar Halldór Bjarnason og Margrét Halldórsdóttir. Kona Halldórs var Kristín Pálsdóttir, foreldrar hennar Páll Guðmundsson í Arnardal og kona hans Guðbjörg Sigurðardóttir Hinrikssonar úr sömu sveit.

JÓHANN HALLDÓRSSON sonur ofannefndra hjóna; hann giftist Kristínu Jónasdóttur ættaðri úr Hrísey í Eyjafirði og síðar Moníku Guðmundsdóttur Jónssonar úr Litladal í Blönduhlíð í Skagafirði.

KRISTJÁN HALLDÓRSSON, bróðir Jóhanns, giftur Guðlaugu Eyjólfsdóttur (Sjá bls. 71). Kristján er þingmaður fyrir St. George kjördæmi í Manitobaþinginu.

JÓN SIGURÐSSON sonur Sigurðar Jónssonar bónda á Torfastöðum í Jökulsárhlíð. Móðir Jóns var Þorbjörg dóttir Jóns Bjarnasonar að Hlíðarhúsum í sömu sveit. Kona Jóns Sigurðssonar var Björg Runólfsdóttir bónda á Þorvalds-

stöðum Guðmundssonar á Hallfreðarstöðum. Sigurður bróðir Jóns var í fylgd með þeim hjónum og nam hér land, hann dó 2 árum eftir að hann kom vestur.

JÓN SIGURÐSSON yngri er sonur þeirra Jóns og Bjargar, sem áður er getið. (Sjá bls 49). Hann er giftur Ingibjörgu dóttur Eiríks Hallssonar og Jórunnar konu hans (Sjá bls. 58).

JÓHANN og GUNNAR Þorbergssynir frá Nesi í Loðmundarfirði N.-Múlasýslu komu að heiman 1887 og settust hér að. Móðir þeirra, Guðbjörg, kom að heiman með þeim.

JÓN METÚSALEMSSON og kona hans, Steffanía Stefánsdóttir Gunnarssonar frá Stakkahlíð í Loðmundarfirði, fluttu hingað af Jökuldal og fimm synir þeirra, Björn Sigurður, Jón, Stefán og (Metúsalem, hann féll í fyrra stríðinu), einnig dóttir þeirra Aðalbjörg. Þau eignuðust aðra dóttur hér fyrsta árið, Ragnhildi. Þau hjón bjuggu allan sinn búskap á Jökuldal, Fossvöllum, Brú og Möðrudal; synir þeirra eru nú dánir nema Stefán.

BJÖRN JÓNSSON (Mathews) var elztur af sonum ofannefndra hjóna og kvæntist hér Guðrúnu Guðmundsdóttur (Líndal), bræðra hennar er getið á bls. 73.

SIGURÐUR SIGURÐSSON Sigurðssonar frá Fögrueyjum í Breiðafirði. Móðir hans var Helga Jónsdóttir, hún var systir Árna Jónssonar föður Jóns kaupmanns í Churchbridge afa Gloríu Gray, fegurðar drottningar Winnipegborgar. Helga kom vestur um haf með syni sínum og nam hér land. Sigurður giftist hér Árnínu Sigríði Sigfúsdóttur frá Nesi í Norðfirði S.-Múlasýslu.(Sjá ætt hennar bls. 46). Helga tók til fósturs frænku sína, Sigurlínu Pétursdóttur Bjarnasonar frá Dýrafirði, og ólst hún upp hjá henni til fullorðins ára, hún giftist hérlendum manni að nafni Stewart í San Diego í California.

HELGI THORLACÍUS og Ólafur sonur hans fluttu í þessa byggð úr Dakota haustið 1888, og giftist Ólafur hér Guðrúnu Jónsdóttur frá Núpi í Dýrafirði og flutti í Narrows byggð eftir eins árs dvöl hér.

GUÐMUNDUR BJARNASON Nordal frá Skarðshömrum í Norðurárdal í Borgarfjarðarsýslu, giftur Guðnýju Jónsdóttur Jónssonar er bjó í Sveinatungu í Mýrasýslu. Móðir hennar Kristín Pétursdóttir frá Norðtungu.

ÍSLEIFUR RUNÓLFSSON frá Svínafelli í Skaftafellssýslu, kona hans Guðbjörg Jónsdóttir úr sömu sveit, þau bjuggu í 40 ár á Svínafelli. Þrjú börn þeirra fluttu vestur með þeim, Þorsteinn, Runólfur og Sigríður og fluttu þau til Saskatchewan og námu þar lönd.

JÓN VALDIMAR JÓNSSON flutti hingað 1888 með Elízabet konu sína og tvær dætur þeirra hjóna, Jórunni og Málfríði. Með

Jóni voru bræður hans Páll og Þorsteinn úr Vopnafirði í Norður-Múlasýslu. Þeir fluttu héðan til N.-Dakota.



SVEINN JÓNSSON og Kristín kona hans (sjá bls. 52). Sveinn er sonur Jóns Matthíassonar og konu hans Helgu Ásgeirsdóttur, þeirra er minnst hér að neðan. Kristín kona hans, nú dáin, er dóttir Jóns og Ingibjargar Líndal (sjá bls. 59).

JÓN MATTHÍASSON og seinni kona hans, Helga Magnúsdóttir, fluttu hingað í byggðina 1888 frá Hergilsey á Breiðafirði. Jón var tvígiftur og átti tvö börn með fyrri konunni, Snæbjörn og Guðrúnu, og tvo sonu með Helgu síðari konu sinni, Ástráð og Svein. Snæbjörn var giftur á Íslandi Ingibjörgu Jónsdóttur bónda á Reykjanesi, barna þeirra er áður getið. Ástráður dó í Klondyke um aldamótin, hann var gullleitarmaður. Sveinn giftist hér í byggð, Kristínu Líndal (sjá bls. 59). Börn þeirra hjóna eru: Ingi, Ástráður, Ágúst, Jensína, Helga og Jóhanna. Sveinn flutti til Sask. og býr þar. Guðrún dóttir Jóns Matthíassonar giftist á Íslandi Böðvari Guðmunds syni frá Firði í Múlasveit; eftir lát hans flutti Guðrún vestur til fólks síns og nam hér land; börn þeirra Ólafur í B.C. Jón dáinn, Guðrún gift í Sask.



ÁSTRÁÐUR JÓNSSON bróðir Sveins kom til byggðarinnar 1888 og var með foreldrum sínum· þar til hann fór til Klondyke og dó þar 1899.

ÁRNI JÓNSSON Dalman ættaður úr Lóni í Austur-Skaftafellssýslu. Kona hans var Emma Árnadóttir Elíassonar úr Eyjafirði. Árni dó 1893. Emma giftist í annað sinn Sigfúsi Eyjólfssyni ættuðum úr N.-Múlasýslu.



HÖGNI og EIRÍKUR Guðmundssynir Eiríkssonar úr Kjólsvík. Móðir þeirra bræðra var Sesselja Högnadóttir; kona Högna var Guðný Jónsdóttir frá Ketilsstöðum í Hjaltastaðaþinghá N.-Múlasýslu. Eiríkur giftist ekki, en bjó með bróður sínum til dauðadags.

EIRÍKUR MAGNÚSSON frá Brekkuseli í Hróarstungu. Kona hans var Guðrún Hallgrímsdóttir frá Fremraseli í sömu sveit, þau komu vestur og settust hér að 1889.

GUÐRÚN JÓNSDÓTTIR dóttir Jóns Matthíassonar og fyrri konu hans Ingibjargar Jónsdóttur, kom í byggðina 1900 (ekkja eftir Böðvar Guðmundsson) og keypti Grund heimilisréttarland Árna Reykdal og bjó þar ásamt Bjarna Jóhannssyni frænda manns hennar, þar til hún dó 1914. Börn Guðrúnar voru: Jón Böðvarsson, dó að Lundar 1917; Guðrún, Mrs. George Bairson, Semans, Sask.; og Ólafur, giftur Svövu Erlendson, nú búandi í Vancouver, B. C.

PÉTUR RUNÓLFSSON frá Hrollaugsstöðum, kona hans var Pálína Björnsdóttir Hannessonar frá Hnitbjörgum í N.-Múlasýslu.

MONÍKA GUÐMUNDSDÓTTIR Jónssonar úr Litladal í Blönduhlíð í Skagafirði giftist William Eccle, ættuðum frá Orkneyjum. Hún flutti vestur 1889 og settist hér að ásamt tveim dætrum sínum, Kristínu og Svanhildi, er dó hér innan við tvítugt.



JÚLÍUS EIRÍKSSON var sonur ofannefndra hjóna. Hann var tvígiftur, fyrri kona hans var Guðrún Björnsdóttir, systir Stefáns Björnssonar frá Litlabakka sama hrepp, seinni kona Ragnhildur Hannesdóttir ættuð úr Reykjavík.



GUÐRÚN BJÖRNSDÓTTIR var fædd 20. ágúst 1865 á Viðarstöðum í Hjaltastaðaþinghá í N.-Múlasýslu á Íslandi. Var hún með foreldrum sínum til 9 ára aldurs, en þá fór hún til aldraðrar konu, Sólveigar að nafni, ofan í Seyðisfjörð í sömu sýslu og ólst upp hjá henni fram að tvítugs aldri. Var í Winnipegborg þangað til hún giftist Júlíusi Eiríkssyni árið 1895. Eignuðust þau saman 8 börn. Hún dó árið 1912.

HALLGRÍMUR ÓLAFSSON Péturssonar og Karólína Guttormsdóttir frá Húsavík. Kona Hallgríms var Vilhelmína Vigfúsdóttir Magnússonar frá Dölum í Fáskrúðsfirði.

JÓHANN ÞORSTEINSSON Ólafssonar frá Engilæk í Norður-Múlasýslu. Kona hans var Steinunn Árnadóttir frá Gilsárvallahjáleigu í Borgarfirði eystra.



RAGNHILDUR HANSDÓTTIR. Fædd 13. apríl 1890 í Reykjavík. Dó 26. ágúst 1934 á Lundar, Man.

BJARNI KRISTJÁNSSON og kona hans Bjarney Guðmundsdóttir frá Núpi í Dýrafirði, sonur þeirra, Guðmundur (Mundi) Kristjánsson lærði Indíánamál framúrskarandi vel, og var mjög skýr maður, enda var hann Chief of Indian-affairs hjá stjórn Canada. Guðmundur Bjarnason og kona hans komu vestur með tengdasyni sínum og dóttur og voru hér tvö ár og fluttu svo í Narrows byggð.

ODDUR JÓNSSON frá Seyðisfirði nam hér land, ætt hans er þeim, er þetta ritar ókunn, en til skýringar skal þess getið, að hann var tengdabróðir Cap. Otto Vathne á Seyðisfirði. Oddur dó hér en synir hans fluttu héðan.



BJARNI JÓHANNSSON kom í byggðina með Guðrúnu Jónsdóttur, sem nefnd er á blaðsíðu 201 og hafði umsjón með heimili hans þar til hún dó. Eftir það var hann til heimilis hjá Snæbirni og Guðríði Einarsson, þar til hann dó að Lundar.

HALLDÓR ÞORSTEINSSON Ólafssonar frá Engilæk. Kona hans Sigríður Eiríksdóttir frá Márseli í Jökuldalshlíð. Jón Eiríksson bróðir Sigríðar kom með þeim hjónum til Ameríku og dvaldi lengst af hjá þeim.

JÓN HELGASON nam hér land 1889. Hann var Húnvetningur og ógiftur. Dó á Elliheimilinu Betel og arfleifði heimilið að eignum sínum.

BJÖRN JÓNSSON frá Eyjaseli í Jökulsárhlíð. Kona hans Guðrún Pálsdóttir Guðmundssonar frá Eyjólfsstöðum í Suður-Múlasýslu. Þessi hjón komu hingað 1889 og bjuggu hér til dauðadags.

ÁRNI JÓNSSON Reykdal var sonur Jóns Kristjánssonar á Kjalvararstöðum í Reykholtsdal. Móðir Árna Kristín Einarsdóttir frá Grímsstöðum í sömu sveit. Kona Árna Helga Jónsdóttir Jónssonar frá Deildartungu, móðir Helgu var Guðrún Böðvarsdóttir frá Skáney í Reykholtsdal. Helga var tvígift, fyrri maður hennar Jón Þorvaldsson bóndi á Úlfsstöðum í Hálsasveit. Börn þeirra sem fóru til Ameríku voru, Jón (sjá bls. 58) og Þorvaldur (sjá bls. 79).

JÓN JÓNSSON Reykdal sonur Jóns Þorvaldssonar frá Úlfsstöðum í Hálsasveit. Móðir hans Helga Jónsdóttir frá Deildartungu; giftur Sigríði Finnsdóttur, ætt hennar er ekki kunn þeim, sem þetta ritar.

PÁLL REYKDAL er sonur Árna og Helgu Reykdal. Kona Páls er Kristín Eggertsdóttir Jónssonar frá Leirá í Leirársveit og konu hans Sigríðar Jónsdóttur frá Deildartungu.

GUÐMUNDUR BJARNASON ættaður úr Vopnafirði. Kona hans var Eyjólfína Eyjólfsdóttir frá Naustahvammi í Norðfirði Suður-Múlasýslu og hálfsystir Eyjólfs Eyjólfssonar í Winnipeg.

STEFÁN BJÖRNSSON frá Litlabakka í N.-Múlasýslu kom til Ameríku 1889 og flutti þá strax í þessa byggð. Kona Stefáns var Guðríður Björnsdóttir Hannessonar frá Hnitbjörgum sömu sýslu.

SNÆBJÖRN EINARSSON er ættaður af Barðaströnd við Breiðafjörð, kom til Ameríku 1894 og sama ár hingað, giftist hér Guðríði dóttur Magnúsar Gíslasonar og konu hans, Þórdísar (sjá bls. 62).



GÍSLI ÓLAFSSON Þorsteinssonar frá Bót í Hróarstungu í N.-Múlasýslu. Kona hans er Guðrún Ingibjörg Jónsdóttir af Hákonarstaðaætt Norður-Múlasýslu.

JÓN JÓNADABSSON (Líndal) Grímssonar frá Búrfelli í Húnavatnssýslu. Móðir Jóns var Kristín Jónsdóttir frá Sauðadalsá í sömu sýslu. Kona Jóns var Ingibjörg Tómasdóttir; þau hjón fluttu í þessa byggð 1891 frá Norður Dakota.

JÓN LÍNDAL sonur ofannefndra hjóna flutti með þeim hingað. Hann giftist hér í byggð, Soffíu Jónsdóttur Þorsteinssonar, kona Jóns var Concordía Rósman. Áttu heima í Ísafjarðarkaupstað. Systur Jóns Líndal eru: Kristín og Gróa.

KRISTÍN Líndal kona Sveins Johnssonar (sjá bls. 52).

GRÓA LÍNDAL (sjá bls.59).

JÓN ÞORKELSSON Hannesson frá Hnitbjörgum. Kona Jóns var Kristín Jónsdóttir Þórðarsonar frá **Fögruhlíð í Jökulsárhlíð.**



EIRÍKUR JÓNSSON Hallson frá Márseli í Jökulsárhlíð. Móðir Eiríks Ingibjörg dóttir Snæbjarnar bónda á Hrafnabjörgum í Hjaltastaðaþinghá. Kona Eiríks var Jórunn Þorsteinsdóttir frá Engilæk, hún dó hér í byggð. Giftist Eiríkur síðar Ingibjörgu Jónsdóttur, hún varð skammlíf, og giftist Eiríkur þá í þriðja sinn núlifandi konu sinni, Jakobínu Jónsdóttur, Ingibjörg og Jakobína voru systur.



EINAR GUÐMUNDSSON Ásgrímssonar og Ingibjargar Sveinsdóttur. Kona Einars var Þórstína Þorsteinsdóttir Vilhjálmssonar frá Mýrnesi í S.-Múlasýslu. Einar flutti í þessa byggð 1901.

JÓSEP JÓNADABSSON (Líndal) Grímssonar frá Búrfelli Húnavatnssýslu. Móðir hans Kristín Jónsdóttir frá Sauðadalsá Húnavatnssýslu. Kona Jóseps Sigríður Bjarnadóttir frá Bjargi í Miðdal í Húnavatnssýslu.

DANÍEL J. LÍNDAL er sonur síðastnefndra hjóna, hann kom með foreldrum sínum frá Dakota 1893, giftist hér konu sinni, Margréti Eyjólfsson (sjá bls. 71.

MAGNÚS GÍSLASON Gunnarssonar Helgasonar úr Eyjahrepp á Breiðafirði. Móðir hans var Guðrún Magnúsdóttir Einarssonar Sveinssonar að Hvallátrum við Breiðafjörð. Kona Magnúsar var Þórdís dóttir Magnúsar Jónssonar og konu hans, Bjargar Jónsdóttur, er bjuggu að Hamri á Barðaströnd.

JÓNANN GÍSLASON er sonur ofannefndra hjóna.

HJÖRTUR JÓNSSON frá Akureyri, oft nefndur Hjörtur sterki. Móðir Hjartar var Guðrún Jónsdóttir, hún hafði gistihús á Akureyri. Hjörtur giftist að Mountain í Dakota Hólmfríði Jónsdóttur, ættaðri úr Eyjafirði.



PÁLL GUÐMUNDSSON Ásgrímssonar, fæddur 1867 á Snotrunesi Borgarfirði eystra Norður-Múlasýslu. Kom hingað 1894. Giftist árið 1901. Kona hans var Sigríður Eiríksdóttir Hallson, fædd 1870 að Ósi í Hjaltastaðaþinghá Norður-Múlasýslu. Kom hingað 1900. Börn þeirra: Anna Ingibjörg, gift John Hannes Thorgilsson, Lundar, Man.; Guðný Valgerður, gift Henry Norman Powell, Prince Rupert, B.C.; Eirikka, gift Ólafi

Brandson, Lundar, Man.; Rannveig, gift Walter Brandson, Lundar, Man.; Guðrún Björg, gift Victor Potter, Winnipeg, Man.

BJARNI TORFASON Jónssonar frá Ásgrímsstöðum í Hjaltastaðaþinghá; kona Bjarna Katrín Gissursdóttir, ættuð úr Skaftafellssýslu.



SVEINN GUÐMUNDSSON (Borgfjörð) sonur Ásgríms bónda á Snotrunesi í Borgarfirði. Móðir Sveins var Ingibjörg Sveinsdóttir, móðir Ingibjargar var Gunnhildur dóttir Jóns sterka í Höfn í Borgarfirði. Kona Sveins var Þorbjörg Guðmundsdóttir skipasmiðs í Fáskrúðsfirði Suður-Múlasýslu.

HALLUR JÓNSSON Hallssonar er fæddur á Hrafnabjörgum í Jökulsárhlíð, bróðir Eiríks J. Hallssonar. Hallur var giftur Guðrúnu Eiríksdóttur Hallssonar frá Hrærekslæk. Guðrún dó hér í byggð 1904. Hallur giftist síðar Ólöfu dóttur Gísla Ólafssonar bónda hér (sjá bls. 56).

PÉTUR ÁRNASON Árnasonar frá Hörgskoti Húnaþingi. Móðir hans var Ingibjörg Jónadabsdóttir Grímssonar frá Búrfelli, bræðra hennar er áður getið, Jóns og Jóseps Líndal. Pétur giftist Gróu Hallgrímsdóttur frá Meðalheimi, missti hana og giftist Helgu Ragnhildi Andresdóttur frá Hvassafelli í Norðurárdal. Börn Péturs og Helgu voru: Gróa Mildríður, Árni, Lára Emily Clara og Vilhjálmur. Pétur giftist í þriðja sinn Kristrúnu Sigurgeirsdóttur frá Akureyri, þau eignuðust tvær dætur eftir að þau fluttu héðan.

GUÐMUNDUR GUÐMUNDSSON Ásgrímssonar bónda á Snotrunesi í Borgarfirði og er Guðmundur fæddur þar. Móðir hans var Ingibjörg Sveinsdóttir. Móðir Ingibjargar var Gunnhildur Jónsdóttir frá Höfn. Kona Guðmundar var Mekkín Jónsdóttir Þorsteinssonar frá Surtsstöðum. Móðir Mekkínar var Mekkín Jónsdóttir frá Hrafnabjörgum.

ÞÓRARINN GUÐLAUGSSON (Breckman) sonur Guðlaugs Þorleifssonar að Klungurbrekku á Skógarströnd, hann giftist Þorbjörgu Einarsdóttur. Móðir Þórarins var Karitas Guðmundsdóttir kona Guðlaugs að Klungurbrekku.

GUÐMUNDUR KRISTJÁN Guðlaugsson (Breckman) sonur Guðlaugs Þorleifssonar og Karitasar Guðmundsdóttur er bjuggu að Klungurbrekku á Skógarströnd.

Guðmundur giftist hér vestra Jakobínu Guðjónsdóttur Ísleifssonar frá Flautafelli í Þistilfirði í Þingeyjarsýslu.

KRISTJÁN GUÐMUNDSSON Breckman er af síðara hjónabandi Karítasar og var hálfbróðir Þórarins og Guðmundar. Kona Kristjáns var Guðrún Ólafsdóttir Freemans Gunnarssonar frá Vatnsleysu í Skagafirði.

ÞORKELL JÓNSSON frá Valþúfu á Fellsströnd við Breiðafjörð flutti til Ameríku árið 1900. Kona hans var Ingveldur Bjarnadóttir, auk barna þeirra hjóna, er getið þar Snjófríðar og manns hennar, Karls Jónssonar, sem ekki eiga þar að vera, auk þess er minnst Þorkels sonar þeirra sem er rétt.

SIGURJÓN JÓNSSON skipstjóri, hann var giftur Guðrúnu Jónsdóttur og bjuggu þau að Hraunfirði í Hafnarfirði, fluttu til Ameríku árið 1886.

BERGÞÓR JÓNSSON fæddur í Möðrudal á Fjöllum. Kona hans var Vilhelmína Eyjólfsdóttir timburmanns frá Naustahvammi í Norðfirði.

DANÍEL BACKMAN er sonur Guðna Jónssonar og konu hans Guðnýjar Daníelsdóttur frá Hrafnabjörgum. Foreldrar Daníels bjuggu á Dunkárbakka í Dalasýslu. Kona Daníels var Hólmfríður Salóme Kristjánsdóttir Sigurðssonar í Selárdal í Hörðudal, móðir Hólmfríðar var Margrét Sigurðardóttir.

KRISTJÁN BACKMAN var albróðir Daníels Backman, sem áður er getið. Kristján giftist hér vestra Helgu dóttur Jóns Hördal (sjá bls. 108). Auk barna þeirra hjóna, sem talin eru upp í Afmælisbókinni var Halldóra, sem dó innan tvítugs aldurs á Lundar.

JÓN BJARNASON flutti hingað í byggð frá Hallson N. Dakota. Hann er ættaður frá Sörlatungu í Hörgárdal við Eyjafjörð. Kona Jóns var Helga Þorláksdóttir úr sömu sveit. Tveir synir Jóns frá fyrra hjónabandi, Ágúst og Björn, bjuggu í þessari sömu sveit (sjá bls. 72—74).



JÓN VESTMAN var sonur Jóns Sigurðssonar bónda í Hjarðarholti og konu hans Kristínar Eggertsdóttur. Kona Jóns var Anna Sigríður Jónsdóttir Jóhannessonar frá Sauðeyjum á Breiðafirði. Móðir Sigríðar var Vigdís Magnúsdóttir úr Skáleyjum.



STEINN DALMANN og kona hans Helga Jónsdóttir fluttu í byggðina 1893 með tengdaforeldrum sínum, Jóni Björnssyni og konu hans Helgu Þorleifsdóttur (sjá bls. 67).

PÉTUR JÓHANN Hallsson flutti hingað frá Hallson í Norður Dakota, og ber þorpið Hallson nafn þeirra feðga; ætt þeirra er frá Geldingaholti í Skagafirði. Kona Péturs hét Gunnvör ættuð af Akur eyri.

HELGI BJÖRNSSON Hannessonar frá Hnitbjörgum í Jökulsárhlíð. Kona hans er Margrét Guðmundsdóttir Bjarnasonar frá Hraðastöðum í Mosfellssveit. Móðir Margrétar var Katrín Guðnadóttir. Kona Guðna hét Katrín ættuð úr Flóanum.

SIGURÐUR JÓNSSON frá Byggðarholti í Lóni, faðir hans Jón hreppstjóri og D.b.m. Jónssonar prests á Kolmúla. Móðir Sigurðar var Ragnhildur Gísladóttir Árnasonar prests að Stafafelli. Sigurður giftist Guðrúnu Vigfúsdóttur úr Flatey á Mýrum.

HJÖRTUR PÁLSSON frá Norður-Reykjum í Hálsasveit í Borgarfirði. Móðir hans var Sigurbjörg Helgadóttir af sama bæ. Kona Hjartar var Kristín Þorsteinsdóttir frá Húsafelli.

HELGI ODDSON var sonur Friðbjörns Oddsonar og Katrínar Sigurðardóttur fædd á Végeirsstöðum í Fnjóskadal í Þingeyjarsýslu. Kona Helga var Stefanía Torfadóttir Jónssonar á Ásgrímsstöðum í Hjaltastaðaþinghá. Friðbjörn Oddson fæddist í Breiðuvík á Tjörnesi.

BJARNI MAGNÚSSON ættaður úr Lóni í Skaftafellssýslu. Kona hans Guðný Eyjólfsdóttir Snjólfssonar úr sömu sveit.



Petrína Ólafsson



STEFÁN ÓLAFSSON Rafnssonar frá Skálanesi í Vopnafirði. Kona Stefáns var Petrína Vigfúsdóttir frá Ásbrandsstöðum í sömu sveit.

BJÖRN AUSTMAN sonur Runólfs bónda á Stórasteinsvaði í Hjaltastaðaþinghá. Móðir hans var Guðbjörg Guðmundsdóttir úr Jökulsárhlíð og hálfsystir Magnúsar Eiríkssonar guðfræðings. Kona Björns var Margrét Jónsdóttir Sigurðssonar frá Hrafnabjörgum Jökulsárhlíð.

ÓLAFUR MAGNÚSSON Jónssonar bónda á Tandrastöðum í Norðfirði. Kona hans Björg Guðmundsdóttir Magnússonar úr Fannardal í sömu sveit.

SIGURÐUR SIGURÐSSON frá Melakoti í Melasveit Böðvarssonar frá Fiskilæk í Melasveit. Móðir Sigurðar var Halldóra Jónsdóttir frá Leirá í Leirársveit í Borgarfirði. Kona Sigurðar var Ragnheiður Þórðardóttir Þorsteinssonar frá Leirá í Leirársveit og konu hans Rannveigar Kolbeinsdóttur.

JÓN EIRÍKSSON kom til Ameríku frá Galtastöðum í Hróarstungu í Norður-Múlasýslu 1899 og keypti hér land. Kona hans var Sigríður Bjarnadóttir Jónssonar Bjarnasonar að Hlíðarhúsum.

JÓN EYJÓLFSSON Kristjánssonar frá Breiðavaði í Eiðaþinghá Múlasýslu. Kona hans Guðrún Guðmundsdóttir Finnbogasonar. Móðir Guðrúnar var Guðlaug, ættuð frá Þorgrímsstöðum í Breiðdal S.-Múlasýslu, þau hjón komu vestur 1889 og bjuggu 17 ár í Akrabyggð í Dakota.

MAGNÚS BJARNASON (Black). Kona hans hét Rósa Sveinsdóttir, bæði voru þau hjón ættuð úr Skagafirði.





MAGNÚS ÓLAFSSON var fæddur að Apavatni í Grímsnessveit í Árnessýslu. Foreldrar hans voru hjónin, Ólafur Magnússon og Guðríður Halldórsdóttir. Hann flutti vestur með móður sinni árið 1900, og lézt hún hér í byggð 1918. Kona Magnúsar var Eygerður Egilsdóttir, foreldrar hennar. Egill Jónsson og kona hans Aldís Halldórsdóttir, foreldrar Eygerðar bjuggu á Hjálmsstöðum í Laugardal í Árnessýslu allan sinn búskap.

KÁRI BYRON sonur Stefáns Björnssonar og konu hans Guðbjargar Sigurðardóttur. Kári giftist hér í byggð Önnu Mýrdal (sjá bls. 105).

EINAR JOHNSON sonur Björns Jónssonar og konu hans Stefaníu (sjá bls. 106). Kom hér í byggð með foreldrum sínum 1894. Einar giftist hér Sigurbjörgu dóttur Jóns Einarssonar (sjá bls. 72).

KRISTJÁN Fjelsted Eggertsson Vigfússonar, er fæddur á Hallbjarnareyri í Snæfellsnessýslu. Kona hans var Guðbjörg Jónsdóttir af Akranesi.

GUÐJÓN RAFNKELSSON Benediktssonar, ættaður úr Skaftafellssýslu, kom til Ameríku árið 1900 og nam hér land. Kona hans Þórey Kjartansdóttir, ættuð úr Nesjasveit í Skaftafellssýslu.

BJARNI JÓNSSON Bjarnasonar kom með foreldrum sínum til Ameríku. Hann kvæntist Nikólínu Nissdóttur Péturssonar, móðir Nikólínu hét Soffía Þorláksdóttir, ættuð af Skagaströnd í Húnavatnssýslu. (Sjá bls. 67). Bjarni er enn á lífi.

ÁRNI JÓNSSON (Reiðfjörð) var bróðir Sigurðar Jónssonar (sjá bls. 68). Kona Árna var Ólöf Jónsdóttir. Þau settust að hér

1896 og fluttu til Langruth. Ólöf var ættuð úr Reyðarfirði.

SKÚLI TORFASON frá Sandbrekku í Hjaltastaðaþinghá. Ólst upp hjá Skúla Björnssyni í Brúnavík í Borgarfirði eystra. Kvæntist í Noregi Jóhönnu Jakobsdóttur.

SNJÓLFUR SIGURÐSSON Guðlaugssonar var fæddur að Stapaseli í Stafholtstungum. Móðir hans Guðrún Snjólfsdóttir frá Bakkakoti. Kona hans var Sigríður Stefánsdóttir Vilhjálmssonar, ættaður úr S.-Múlasýslu. Móðir Sigríðar var Sigrún Sigurðardóttir beikis á Eskifirði Suður-Múlasýslu.

GÍSLI LUNDAL sonur Guðmundar Bjarnasonar frá Brautartungu í Lundareykjadal. Móðir Gísla var Guðrún Gísladóttir Þorsteinssonar prests á Hesti í Borgarfirði. Kona Gísla var Halla Eggertsdóttir Jónssonar frá Leirá í Leirársveit og konu hans Sigríðar Jónsdóttur frá Deildartungu.

JÓN EINARSSON Jónssonar Kristjánssonar frá Kjalvararstöðum í Reykholtsdal í Borgarfjarðarsýslu. Kona Jóns Einarssonar var Hallbjörg Halldórsdóttir frá Skáneyjarkoti í sömu sveit.

HÁVARÐUR GUÐMUNDSSON snikkari Jónssonar frá Sveins stöðum í Hellisfirði við Norðfjörð. Móðir Hávarðar var Gunnhildur Ólafsdóttir Björnssonar frá Karlskála. Föðurætt Hávarðar var kölluð Hellisfjarðarætt. Hávarður var þrígiftur, fyrsta kona hans var Helga Jónsdóttir Þorsteinssonar frá Kirkjubóli í Norðfirði, önnur kona, Kristrún Sigvaldadóttir úr Laufássókn, hún ólst upp hjá Kristjönu Hafstein móður Hannesar ráðherra, síðasta kona Hávarðar var Stefanía Sigurðardóttir Árnasonar frá Hólalandi í Borgarfirði.



MAGNÚS TEITUR Einvarðsson fæddur á Skutulsey. Foreldrar Einvarður og Halldóra. Kona Magnúsar, Guðbjörg, var dóttir Jóns og Málfríðar konu hans Andrésdóttur. Guðbjörg var fædd á Seljum í Mýrasýslu.

BJÖRN ARNFINNSSON Jónssonar Arnfinnssonar frá Hlíðarhúsum í Jökulsárhlíð. Móðir Björns var Sveinbjörg Sigmundardóttir frá Skjögrastöðum í S.-Múlasýslu. Kona Björns var Anna Jónsdóttir Pálssonar frá Arnastöðum í Loðmundarfirði í N.-Múlasýslu.

PÁLL KERNESTEÐ og kona hans Guðný fluttu í þessa byggð

1889 og svo héðan til Narrows byggðar, ætt þeirra verður rituð í sögn þeirrar byggðar; þau hjón bjuggu fyrst í Dakota.

ÁGÚST JÓNSSON Bjarnasonar kom með foreldrum sínum til Ameríku. Kona hans var Margrét Árnadóttir frá Torfastöðum í Svartárdal, ætt foreldra Ágústar (sjá bls. 67). Auk barna þeirra, sem getið er um í Hátíðabókinni, voru Valgerður; Anna, gift í B.C. og Málfríður, allar dánar.

ÓLAFUR SIGURÐSSON sonur Jakobs Sigurðar Jónssonar á Lækjamótum í Húnavatnssýslu Móðir Ólafs var Sigríður frá Sveinsstöðum Ólafsdóttir Jónssonar prófasts á Steinnesi Péturssonar. Ólafía kona Ólafs var fædd í Reykjavík, dóttir Ívars Jónatanssonar af Álftanesi. Móðir Ólafíu hét Ólöf Bjarnadóttir ættuð úr Rangárvallasýslu.

JÓN JÓNSSON frá Rauðseyjum á Breiðafirði sonur Jóns Einarssonar og Guðrúnar Guðmundsdóttur frá sama bæ, komu vestur árið 1898 og námu land. Jón var tvígiftur, fyrri kona hans var Helga Gísladóttir úr Rauðseyjum, síðari kona Anna Brynjólfsdóttir, ættuð úr Breiðafjarðareyjum.

ÓLAFUR JÓNSSON, sonur Jóns Ögmundssonar og konu hans, Kristínar Einarsdóttur; þau bjuggu á Bárðarstöðum í Loðmundarfirði í Norður-Múlasýslu. Kona Ólafs hét Guðrún og var dóttir Björns bónda Pálssonar á Stóra-Bakka í Hróarstungu.

BENEDIKT RAFNKELSSON Benediktssonar frá Valskógsnesi í A.-Skaftafellssýslu. Kona hans er Sigríður Jónsdóttir Guðmundssonar frá Bæ í Lóni. Móðir Sigríðar var Kristín Eyjólfsdóttir, er bjó á Eskifelli í Lóni.

ÁRNI Lundal var bróðir Gísla Lundal (sjá bls. 73). Kona Árna hét Margrét Sigurðardóttir; hef ekki getað aflað upplýsinga um ætt hennar. Síðari kona Árna er Ingibjörg Pálsdóttir, hún lifði mann sinn.



JÓN SIGURÐSSON fæddur að Hálsi í Köldukinn 1850, sonur Sigurðar Jónssonar á Granastöðum og konu hans. Jón Sigurðsson giftist Pálínu Þórðardóttur Erlendssonar frá Stóra-Eyrarlandi í Eyjafirði; þessi hjón settust að í þessari byggð árið 1905.

GUÐMUNDUR BERGMAN var úr Norður-Múlasýslu, ætt hans er þeim ókunn, er þetta ritar. Kona Guðmundar var Jónína Björnsdóttir Hannessonar frá Hnitbjörgum í Norður-Múlasýslu.

SIGURJÓN EIRÍKSSON og faðir hans, Jón Eiríksson frá Eyja-

seli í Jökulsárhlíð komu til Ameríku 1894. Kona Sigurjóns er Ragnhildur Sigurðsson Þórðardóttir Sigurðssonar og konu hans Bergþóru Bergþórsdóttur (sjá bls. 84).

SIGURSTEINN ODDSON sonur Friðbjarnar Oddsonar og Katrínar konu hans (sjá bls. 69). Kona Sigursteins var Ágústa Stefanía Eyjólfsdóttir frá Naustahvammi í Norðfirði (ætt Sigursteins bls. 69). Yngsta dóttir þeirra Vilhelmína (Mrs. Melsteð) var alin upp af Bergþór og Vilhelmínu móðursystur sinni.

GUÐLAUGUR SIGURÐSSON. Foreldrar hans Sigurður Ármannsson og kona hans Sigríður Magnúsdóttir, bjuggu í Vestmannaeyjum. Kona Guðlaugs var Margrét Árnadóttir Einvarðssonar, og konu hans, úr Vestmannaeyjum.

SIGURÐUR JÓNSSON sonur Jóns Jónssonar bónda á Reykjanesi í Barðastrandasýslu. Móðir Sigurðar hét Sigurbjörg, en kona Sigurðar hét Margrét Jónsdóttir. Ætt hennar hefir ekki verið hægt að afla upplýsinga um.

GUÐLAUGUR JÓHANNSSON (Johnson) kom vestur og settist hér að um tíma. Kona hans hét Guðrún, þau voru úr Hrísey í Eyjafirði.

HALLUR HALLSSON og Guðbjörg kona hans voru ættuð af Fljótsdalshéraði, komu vestur 1889 voru hér í 3 ár og fluttu svo í Narrows byggð, eru nú dáin fyrir nokkrum árum.

DAVÍÐ DAVÍÐSSON frá Grænanesi í Norðfirði í Suður-Múlasýslu. Kona hans heitir Þórunn, hennar ætt er af Suðurlandi.

BENJAMÍN JÓNSSON var elsti sonur Jón Benjamínssonar og fyrri konu hans Guðrúnar Jónsdóttur, frá Háreksstöðum í Jökuldalsheiði. Hann var fæddur árið 1862. Kona hans var Jóhanna Hallgrímsdóttir pósts. En móðir hennar hét Guðný Hermannsdóttir. Þau fluttu í byggðina 1905. Börnin voru 8 alls. Elsta dóttirin, Áshildur, giftist Lárusi Johnson fóstursyni þeirra Laufaáshjóna. Hún dó eftir skamma sambúð. Jón, elsti drengurinn, féll í fyrra stríðinu. Tvær systur, Guðný og Guðrún, dóu á fyrstu landnámsárunum. En Þórður, giftur pólskri stúlku, býr í The Pas, Man., og Otto, giftur sænskri konu, á heima við Birch River, Man. Yngstu systurnar, Auður og Guðný, eru báðar giftar hérlendum mönnum og búa nú í Vancouver: (sjá bls. 76 í fyrri bókinni).



GRÍMUR JÓNSSON (Scheving) foreldrar Jón Einarsson og kona hans Guðný Eiríksdóttir, þau bjuggu á Hólalandi í Borgarfirði N.-Múlasýslu. Kona Gríms var Guðrún Jónsdóttir Stefánssonar og konu hans Láru Þórðardóttur, þau bjuggu á Hólalandshjáleigu í Borgarfirði.



EIRÍKUR JÓNSSON, Scheving Foreldrar: Jón Einarsson og Guðný Eiríksdóttir. Bjuggu á Hólalandi í Borgarfirði í Norður-Múlasýslu. Eiríks er minnst á blaðsíðu 58 í Lundar Diamond Jubilee 1887—1947, bókinni, og er rétt skýrt frá, nema dóttir Högna, sem Eiríkur á nú heimili hjá heitir Björg en ekki Guðný eins og þar er sagt.

JÓN JÓNSSON frá Sleðbrjót i Jökulsárhlíð. Hann var um langt skeið þingmaður fyrir Norður-Múlasýslu á Íslandi. Hann kom til Ameríku 1903 og settist hér að, bjó á Rabbit Point og flutti svo í Siglunesbyggð. Kona hans var Guðrún Jónsdóttir Þorsteinssonar frá Surtsstöðum N.-Múlasýslu.

GUÐMUNDUR JÓNSSON frá Húsey var bróðir Jóns frá Sleðbrjót og fluttu þeir bræður vestur sama ár og bjuggu hér þar til þeir fluttu í Siglunesbyggð. Guðmundur var giftur Jónínu Bjarnadóttur, ætt hennar var úr Fljótsdalshéraði. Yngsti sonur þeirra hjóna, Jón, býr nú á heimili foreldra sinna.



ÁRNI EINARSSON fæddur á Skógum í Kolbeinsstaðahreppi í Snæfellsnessýslu, á Íslandi, 4. apríl 1862. Foreldrar hans voru Einar Einarsson Magnússonar og Elínborg dóttir Jóhannesar Kaspersonar. Þegar Árni var tveggja ára fluttist hann með foreldrum sínum að Dunk í Hörðudal í Dalasýslu og ólst þar upp. Kona hans

Kristín Magnúsdóttir, ættuð úr Hörðudal í Dalasýslu. Foreldrar hennar voru Magnús Benediktsson frá Selárdal í Hörðudal og Helga Grímsdóttir frá Hrafnabjörgum í sömu sveit.



MAGNÚS ÓLAFSSON Freeman sonur Ólafs Gunnarssonar frá Vatnshlíð í Skagafirði. Kona hans var Helga Jónsdóttir Sigurðssonar frá Ferstiklu í Borgarfjarðarsýslu. Þau komu til Ameríku 1886, ásamt Ásmundi syni sínum.

KRISTJÁN RÓSMAN (Casper) kom í þessa byggð 1889 frá N.-Dakota og nam hér land og bjó hér nokkur ár, hann er nú látinn og dó í Blaine, Wash. Um ætt þeirra hjóna er mér ókunnugt.

SIGFÚS ÞORSTEINSSON Ólafsson frá Engilæk í Norður-Múlasýslu. Kona hans, Björg, móðir Sófaníasar Hafsteins, ættuð úr Eyjafirði.

SÓFANÍAS HAFSTEINN Guðmundsson nam hér land og giftist Kristínu Guðrúnu Brynjólfsdóttur, hún er ættuð úr Rauðseyjum á Breiðafirði. Móðir Guðrúnar hét Sigfríður Brynjólfsdóttir ættuð úr Breiðafjarðareyjum.



ÓLAFUR MAGNÚSSON og Sigþrúður Björnsdóttir. Heimili þeirra á Íslandi, var síðast að Sleðbrjót í Hlíðarhreppi Norður-Múlasýslu.

Þau fluttu til Canada árið 1905, dvöldu tvö ár að Mary Hill, Man. Fluttu þaðan til Silver Bay, Man. og tóku sér þar heimilisréttarland og stunduðu búskap í 32 ár. Þaðan fluttu þau til Lundar, Man. 1939, og hafa átt þar heimili síðan. Tvær dætur þeirra eru: Guðrún, Mrs. Ralph Davis, Winnipeg, Man. og Sigrún Sólveig til heimilis í Chicago, Ill. U. S. A.

Þessi heiðurshjón Ólafur og Sigþrúður, fluttu lítið frá æskustöðvum sínum af gulli og silfri, en mikið af varanlegri fjársjóð, íslenzkar dyggðir og hreina mann-

kosti, sem að samferðafólk þeirra hefir lært að þekkja og meta.



ODDNÝ BJÖRNSDÓTTIR er fædd á Hrollaugsstöðum í Hjaltastaðaþinghá í Norður-Múlasýslu á Íslandi. Hún kom til Canada með Sæbirni syni sínum 1901, sem drukknaði 1913. Hún dvaldi nokkur ár hjá Stefáni bróður sínum við Mary Hill. Nam síðar land skammt frá Lundarbæ, seldi það nokkru seinna og flutti í bæinn. Hún er nú 95 ára gömul, til heimilis hjá Helga og Margréti Björnsson.

ÁRMANN ÞÓRÐARSON var fæddur á Fiskilæk í Leirársveit í Borgarfjarðarsýslu. Foreldrar hans voru Þórður Sigurðsson ættaður úr Leirársveit, og Sigríður yfirsetukona Runólfsdóttir frá Saurbæ á Kjalarnesi. Ólst hann upp á Fiskilæk með systur sinni og sex bræðrum. Af þeim eru þrír landskunnir, Júlíus, prestur í Noregi, Ágúst Flygering og Matthías.

Ármann giftist Steinunni, dóttur Þórðar á Leirá. Stunduðu þau búskap um nokkurra ára skeið, en fluttu vestur um haf sumarið 1903, og um haustið til Álftavatnsbyggðar, á næsta ári missti Ármann konu sína; af fjórum börnum þeirra hjóna var aðeins lifandi ein dóttir, Sigríður, sem var með föður sínum. Eftir skamma dvöl í Álftavatnsbyggðinni flutti Ármann sig búferlum til norðurhluta Grunnavatnsbyggðar, var það land svæði nefnt „Síbería“ af fyrstu landnemunum. Þar giftist hann seinni konu sinni, Solveigu Thorvaldsson, lifir hún mann sinn ásamt tvæmur dætrum og einum syni.

Það sem einkenndi Ármann og gerði hann eftirminnilegan samtíðarmönnum hans, var hans mikli dugnaður og áræðni. Það mun vera óvanalegt að maður, sem kemur hingað fullorðinn úr sveit á Íslandi, með enga þekkingu á vélamenningu nútímans, skyldi veitast svo létt að skilja starfrækslu og viðhald hinna ýmsu véla, sem notaðar voru á þeim tíma. Stjúpsonur hans hefir sagt mér, að Ármann hafi alltaf getað gert við þær vélar, sem úr lagi fóru hjá nágrönnum hans. 1916 setti hann á stað hveitimyllu á heimili sínu, vélarnar voru knúðar af gufukrafti. Notaði hann einnig gufuketilinn til að plægja land fyrir sjálfan sig og nágranna sína. Seinna flutti hann til Lundar og starfrækti þar hveitimylluna um nokkurra ára skeið.

Ármann var ágætur smiður og bygði mörg hús í sveitinni, hann var yfirsmiður við Lútersku kirkjuna á Otto. Einnig var hann góður málari og vann mikið að málningu og veggfóðrun, eftir að hann flutti til Lundar. Hann hafði yndi af hljómlist, spilaði á orgel og píanó og hafði mjög næman smekk fyrir góðum söng.

Ármanns mun lengi vera minst, sem eins af hinum fjölhæfustu mönnum, sem hér hafa átt heima.

*Ljótunn Sveinsson*

SIGURÐUR EYJÓLFSSON Narfasonar var fæddur að Hverakoti í Grímsnesi í Árnessýslu. Móðir Sigurðar var Álfheiður Sigurðardóttir Einarssonar frá Gölt í sömu sveit. Sigurður var tvígiftur, fyrri kona hans var Guðrún Þórunn Helgadóttir, ættuð úr Eyjafirði; síðari kona Sigurðar var Kristín Anna Daníelsdóttir Sigurðssonar, (sjá ætt hennar bls. 94).

GRÍMUR MAGNÚSSON Þorsteinssonar, er bjó á Grímsstöðum við Reykjavík. Móðir Gríms hét Vigdís. Kona hans Elín Pétursdóttir Árnasonar frá Ketilsstöðum í Hjaltastaðaþinghá. Móðir Elínar var Friðrika Bjarnadóttir fædd í Seljarteigshjáleigu í Reyðarfirði í Suður-Múlasýslu.

ÞORVALDUR REYKDAL var bróðir Jóns Reykdal, (sjá ætt þeirra bræðra bls. 58). Kona Þorvaldar var Kristín Björnsdóttir Björnssonar og konu hans Elínar Guðmundsdóttur frá Miðdal í Laugardal í Árnessýslu.



Kristín Þórðarson



VIGFÚS ÞÓRÐARSON Þorsteinssonar frá Leirá í Leirársveit og konu hans Rannveigar Kolbeins dóttur. Kona Vigfúsar var Kristín Ólafsdóttir frá Sturlu-Reykjum í Reykholtsdal í Borgarfjarðarsýslu.

KRISTJÁN VIGFÚSSON og kona hans Halldóra Árnadóttir, bjuggu á Kerastöðum í Þistilfirði í Þingeyjarsýslu, og fluttu þaðan í þessa byggð árið 1890, og námu hér land. Þau hjón eignuðust engin börn, en tóku til fósturs Jóhann son Guðmundar Jónssonar Austfjörð; hann ber nafn þeirra „Joe“ Vigfússon.

BJÖRN SIGURÐSSON Björnssonar ættaður úr Fljótsdalshéraði í Norður-Múlasýslu. Kona Sigurðar og móðir Björns var Guðfinna Oddsdóttir ættuð úr Reyðarfirði. Kona Björns var Jóhanna Antóníusardóttir Eiríkssonar frá Hærukollsnesi á Berufjarðarströnd í Suður-Múlasýslu. Móðir Jóhönnu var Ingveldur Jóhannesdóttir Árnasonar Eyjafjarðarskálds. Þau Björn og Jóhanna fluttu úr Fljótsbyggð í Nýja-Íslandi 1902 og tóku land í Grunnavatnsbyggð.

JÓN JÓNSSON er bjó á Skallhóli í Miðdölum í Dalasýslu. Kona Jóns var Þorbjörg Guðmundsdóttir frá Rifgirðingum í Snæfellnessýslu, fluttu til Ameríku 1885, bjuggu fyrst í Mikley, síðar í Selkirk. 1902 fluttu þau að Hofi við Grunnavatn með Jóni H. Jónssyni tengdasyni sínum og Björgu dóttur sinni konu Jóns.

JÓN H. JÓNSSON, foreldra hans er getið í næstu grein hér á eftir. Björg kona hans er dóttir ofnannefndra hjóna, Jóns Jónssonar og Þorbjargar. Jón kom 5 ára með foreldrum sínum til Ameríku, árið 1878. Settust þau að í Mikley í Winnipegvatni. Hann flutti í Grunnavatnsbyggð 1902 og var hér í mörg ár. Ásamt búskapnum stundaði hann fiskiútgerð á Manitobavatni.

JÓN JÓNSSON Halldórssonar Pálssonar. Páll bjó 60 ár á Ásbjarnarstöðum í Stafholtstungum í Mýrasýslu. Faðir Jóns bjó að Svarfhóli í Stafholtstungum. Kona hans var Helga Jónsdóttir Oddsonar frá Mýrum í Mýrasýslu. Kona Jóns Jónssonar var Sigríður Jónsdóttir Jónssonar Þórðarsonar úr Ólafsvík. Þau Jón og Sigríður bjuggu 24 ár í Mikley; nefndu bæ sinn Grund. Til Grunnavatns flutti hann 1902, gerðist þar póstafgreiðslumaður; pósthús sitt nefndi hann Hof og var nafn þess afbakað í Hove.

ANDRÉS SKAGFELD JÓNSSON Árnasonar Sigurðssonar. Faðir Andrésar bjó að Litlavatnsskarði í Laxárdal í Húnaþingi. Móðir hans var Guðrún Jónsdóttir Jónssonar á Bessastöðum í Skagafirði. Andrés giftist Kristínu Ingveldi Jónsdóttur Kaprasíussonar af Höfðaströnd í Skagafirði, hún varð skammlíf, og giftist því Andrés síðar Steinunni Þorsteinsdóttur frá Litlu-Breiðuvíkurstekk í Reyðarfirði Suður-Múlasýslu.

ÞORLEIFUR JÓNSSON Hannessonar. Móðir hans var Ósk Þorleifsdóttir, (foreldra hans er minnst á bls. 104). Kona Þorleifs var Sesselja Finnsdóttir, ætt hennar er þeim ókunn er þetta ritar.

STEFÁN JÓNSSON nam hér land N.W. 12—18—3 og bjó þar um tíma, flutti í Lundarbæ og stundaði þar skósmíði í mörg ár. Foreldrar hans voru Jón Þórarinsson frá Viðastöðum í Hjaltastaðaþinghá, móðir hans var Kristín Bjarnadóttir frá sama bæ. Stefán dó á Lundar og var ógiftur.

ÁGÚST EYJÓLFSSON frá Laugarvatni. Hann giftist hér vestra Guðrúnu Grímsdóttur frá Skálholti í Árnessýslu. Ágúst nam hér land 1902 og bjó á því í nokkur ár, flutti þaðan til Bluff á vesturströnd Manitobavatns, kom hingað til baka 1931 og keypti hér land.

BENJAMÍN EINARSSON, ættaður úr Þistilfirði í Þingeyjarsýslu. Kona hans var Guðleif Stefánsdóttir úr Þistilfirði, systir Guðmundar Stefánssonar (sjá bls. 107)

STEFÁN STEFÁNSSON, ættaður úr Reykjavík. Kona hans var Júlíana Einarsdóttir Eiríkssonar. Móðir Júlíönu var Jóhanna Jónsdóttir frá Bakkakoti í Miðnesi í Gullbringusýslu. Júlíana missti mann sinn og giftist síðar Bergi Sigurðssyni.

PÁLL PÁLSSON bókbindari frá Kverkártungu á Langanesströnd. Kona Páls var Sigrún Jónsdóttir Einarssonar frá Grímsstöðum í Þistilfirði í Þingeyjarsýslu.

HELGI PÁLSSON var ættaður úr Skaftafellssýslu, var fóstursonur séra Jóns Jónssonar prests að Stafafelli. Kona hans var Helga Eggertsdóttir Jónssonar frá Leirá í Leirársveit, og konu hans Sigríðar Jónsdóttur frá Deildartungu.

JÓN GUÐMUNDSSON Þórðarsonar frá Hjálmholti í Árnessýslu. Kona hans var Sigríður Bjarnadóttir Jónssonar Sveinbjörnssonar að Tungufelli Hrunamannahreppi.

SKÚLI SKÚLASON og kona hans Katrín komu í Grunnavatnsbyggð eftir aldamótin. En ekki hefir þeim, er þetta ritar, verið mögulegt að fá upplýsingar um ætt hans samt hefi ég heyrt að hann hafi búið á Völlum eða í Fljótsdal. Kona hans Katrín Þorkelsdóttir var frá Sandprýði við Stokkseyri.

MAGNÚS KRISTJÁNSSON, póstafgreiðslumaður á Otto-pósthúsi. Hann var sonur Kristjáns Sigurðssonar og Margrétar konu hans, (sjá ætt þeirra bls. 84). Magnús giftist hér í byggð Margréti Dagbjört Daníelsdóttur, (foreldra hennar er getið á bls. 96).

SIGURBJÖRN KRISTJÁNSSON er bróðir Magnúsar Kristjánssonar, hann kvæntist hér í byggð Sigurbjörgu dóttur Sveinbjörns Sigurðssonar og Eirikku konu hans, (þeirra er minnst bls. 84).

GUÐMUNDUR JÓNASSON Guðmundssonar frá Bíldhóli á Skógarströnd. Móðir Guðmundar var Anna Jónsdóttir frá Dunkárbakka í Hörðudal. Guðmundur var giftur Margréti Kristjánsdótt-

ur, hún var systir ofannefndra bræðra, Magnúsar og Sigurbjörns.

DANÍEL DANÍELSSON ættaður úr Reykjadal í Þingeyjarsýslu. Kona hans var Guðrún Magnúsdóttir Sigurðssonar, er lengi bjó í Vallahreppi í Suður-Múlasýslu.

SIGFÚS BORGFJÖRÐ SIGFÚSSON Pálssonar bónda á Gilsárvallahjáleigu í Borgarfirði eystra. Móðir Sigfúsar var Kristín Jónsdóttir úr Breiðdal. Kona hans var Sigríður Eiríksdóttir Rafnkelssonar frá Hofi í Öræfasveit í Austur-Skaftafellssýslu.

MAGNÚS DAVÍÐSSON. Foreldrar hans, Davíð Jóhannesson og Guðrún Sigurðardóttir bjuggu á Hofsstöðum í Álftaneshrepp í Mýrasýslu. Þau komu til Canada 1901, námu hér land sama ár í Grunnavatnsbyggð.

KRISTJÁN SIGURÐSSON var fæddur á Gautastöðum í Hörðudal í Dalasýslu. Foreldrar hans voru, Sigurður Jónsson, hreppstjóri, og kona hans Hólmfríður Eiríksdóttir frá Tjaldabrekku í Mýrasýslu. Þau hjón komu vestur 1887 og fluttu í þessa byggð sama ár, barna þeirra er áður getið.

SIGURÐUR SIGURÐSSON Hinrikssonar er síðast bjó að Miðhúsum á Akranesi. Kona Sigurðar var Bergþóra Bergþórsdóttir, hún bjó að Ánabrekku í Borgarhrepp, fluttu þaðan vestur um haf árið 1887 og settust að á Mikley, þar til 1902 að þau fluttu í þessa byggð og voru hér til dauðadags. Elztur barna þeirra var Þórður, kvæntur hér Guðbjörgu Sigurjónsdóttur Þorkelssonar. Móðir hennar var Elísabet Jóhannsdóttir frá Brimilsvöllum í Snæfellsnessýslu.

VIGFÚS JÓNSSON Guttormssonar stúdents og alþingismanns frá Arnheiðarstöðum í Fljótsdal. Móðir Vigfúsar, Pálína Ketilsdóttir. Móðir Pálínu hét Sesselja, þau bjuggu að Bakkagerði í Borgarfirði eystra. Vigfús kvæntist Vilborgu Pétursdóttur Árnasonar frá Ketilsstöðum í Hjaltastaðaþinghá. Móðir Vilborgar var Friðrikka Bjarnadóttir fædd í Seljarteigshjáleigu í Reyðarfirði Suður-Múlasýslu.

GUTTORMUR J. GUTTORMSSON skáld er bróðir Vigfúsar, ætt þeirra bræðra er þar talin. Þeir bræður fluttu í Grunnavatnsbyggð 1902 úr Nýja-Íslandi. Guttormur giftist hér í byggð Jensínu Júlíönu Daníelsdóttur Sigurðssonar (sjá bls. 94).

ÁSGRÍMUR HALLDÓRSSON var elztur sona Jónasar Halldórssonar og konu hans, (ættar hans er minnst á bls 96). Ásgrímur giftist hér í byggð Helgu Árnadóttur Egilssonar, (foreldra hennar er minnst á bls. 91)

KRISTJÁN ÞORVARÐARSON Hann er fæddur árið 1865 að Geithellum í Álftafirði í Suður-Múlasýslu. Flutti vestur 1898 frá Laugardælum í Flóa í Árnessýslu. Móð-

ir Kristjáns var Una Kristjánsdóttir. Kristján kvæntist Steinunni Sigurbjörgu Stefánsdóttur, hún er fædd á Búðareyri við Seyðisfjörð, flutti vestur 1898. Foreldrar hennar voru, Stefán Jóhannes Halldórsson Ketilssonar Jónssonar frá Volaseli í Austur-Skaftafellssýslu. Kona Stefáns var Sigríður Sigmundsdóttir Eiríkssonar, fædd í Árnanesi í Austur-Skaftafellssýlu. Steinunn missti mann sinn, Kristján, fyrir nokkrum árum síðan, giftist síðar Bjarna Dalmann í Selkirk, Man. Hann er nú dáinn.

JÓN FRIÐRIKSSON og Una kona hans námu hér land og bjuggu á því nokkur ár eða þar til Jón andaðist, Una flutti þá til Winnipeg, ætt þeirra er ekki hægt að fá hér.

JÓHANN ELÍASSON Straumfjörð, var fæddur að Ármótum í Hnappadalssýslu 1840. Foreldrar hans Elías Sigurðsson og kona hans Halldóra Björnsdóttir, er lengi bjuggu í Straumfjarðartungu í Miklaholtshrepp í sömu sýslu. Jóhann kvæntist 1868 Kristbjörgu Jónsdóttur úr sömu sveit, þau reistu bú í Hrísdal og bjuggu þar til þau fluttu hingað vestur. 1874 fór Jóhann vestur og kom heim næsta ár til að sækja konu sína. Þátt hans má finna í Almanaki Ólafs Þorgeirssonar 1912, bls. 46. Þar er vel ritað um þau hjón af Jóni frá Sleðbrjót.

JÓN ElÍAS STRAUMFJÖRÐ, sonur ofannefndra hjóna flutti með foreldrum sínum í Grunnavatnsbyggð 1903 og hefir búið hér síðan, þar til fyrir fáum árum, að hann og kona hans tóku sig upp og fóru vestur á Kyrrahafsströnd til sona sinna. Kona Jóns Straumfjörðs var Ingiríður Jónsdóttir Bjarnasonar og konu hans Þuríðar Helgadóttur frá Beigalda í Borgarhrepp í Mýrasýslu; barna þeirra verður getið síðar.

ÁGÚST MAGNÚSSON er fæddur í Kothvammi í Húnavatnssýslu 24. okt. 1863. Foreldrar hans voru hjónin Magnús Magnússon og Margrét Jónsdóttir, bæði til heimilis á Vatnsnesi í sömu sýslu. Ágúst var tekinn í fóstur af frænda sínum Jóni Árnasyni og konu hans Ögn Guðmundsdóttur, sem bjuggu á Illugastöðum á Vatnsnesi. Til Vesturheims kom hann 1887. Hann giftist hér vestra Ragnheiði dóttur Jóhanns Straumfjörðs og konu hans Kristbjargar. Ágúst og Ragnheiður hafa búið hér í byggð 47 ár og eru hér, er þetta er ritað.

EINAR (JOHNSON) Þorkelssonar Jóhannessonar bónda á Þorsteinsstöðum í Svarfaðardal. Kona Einars var Oddfríður Þuríður Þórðardóttir, er bjó á Ánabrekku í Borgarhrepp í Mýrasýslu.

SIGURBJÖRN BENEDIKTSSON. Foreldrar Benedikt Kristjánsson og Hólmfríður Kristjánsdóttir. Þau bjuggu að Þórunnarseli í Kelduhverfi í Þingeyjarsýslu. Kona Sigurbjörns var Kristveig Fríman Jónsdóttir frá Ási í Kelduhverfi.



Valdimar Eiríksson og fjölskylda



Rose Eiriksson

VALDIMAR EIRÍKSSON. Foreldrar hans Sveinn Eiríksson og Guðrún Halldórsdóttir. Bjuggu að Reykhólum í Reykhólasveit í Borgarfjarðarsýslu. Kona Valdimars er Guðrún Jónsdóttir Þorleifssonar og konu hans Hólmfríðar Jósepsdóttur frá Hrísum í Helgafellssveit Snæfellsnessýslu.

PÉTUR PÉTURSSON. Foreldrar Pétur Þórðarson og Sigríður Jónsdóttir; þau bjuggu að Smiðjuhóli í Álftaneshrepp. Kona Péturs var Jóhanna Ingibjörg Þórðardóttir. Pétur og Jóhanna bjuggu að Laugarfossi í Borgarfjarðarsýslu.

STEFÁN ÁRNASON fæddur að Árbót í Þingeyjarsýslu. Foreldrar Árni Kristjánsson og Guðbjörg Guðmundsdóttir. hann kom vestur 1903, og kvæntist Þuríði dóttur Sigurbjörns Guðmundssonar, (sjá bls. 90).

JÓHANN B. JÓHANNSSON. Foreldrar hans Jón Jónsson bóndi á Skallhóli í Miðdölum í Dalasýslu og Þorbjörg Guðmundsdóttir frá Rifgirðingum í Snæfellnessýslu. Kona Jóhanns hét Ingibjörg, dóttir Árna Jónssonar og konu hans Valdísar Þorgeirsdóttur frá Kaldárbakka í Kolbeinsstaðahrepp í Hnappadalssýslu.

BERGÞÓR ÞÓRÐARSON Guðmundssonar Torfasonar. Kona Þórðar og móðir Bergþórs var Bergþóra Bergþórsdóttir frá Ánabrekku í Borgarhrepp í Mýrasýslu. Bergþór var bróðir þeirra Odd-

fríðar og Jóhönnu, (sjá bls. 87—88). Kona Bergþórs var Kristjana Sigurðardóttir Erlendssonar frá Klömbrum í Þingeyjarsýslu. Móðir Kristjönu hét Kristjana Einarsdóttir.

INGIMUNDUR SIGURÐSSON Sigurðssonar Hinrikssonar, er bjó á Miðhúsum á Akranesi. Kona Sigurðar og móðir Ingimundar var Bergþóra Bergþórsdóttir frá Ánabrekku. Hún var ekkja, er hún giftist Sigurði. Börn þeirra Þórður, Ingimundur, Gróa og Ragnheiður nú dáin. Ingimundur giftist hér í byggð Ástu dóttur Jóhanns Straumfjörðs og Kristbjargar konu hans, (ætt hennar sjá bls. 81).

SIGURÐUR ÞORVARÐARSON. Flutti vestur árið 1888 frá Geithellum í Álftafirði í Suður-Múlasýslu. Móðir hans var Una Kristjánsdóttir, ættuð úr sömu sveit. Kona Sigurðar var Guðný Hannesdóttir, ættuð úr Reykjavík. Sigurður flutti í þessa byggð frá Churchbridge, Sask., 1894 og bjó hér ávallt síðan.

RUNÓLFUR PÉTURSSON. Foreldrar hans, Bjarni Bjarnason frá Löndum á Miðnesi í Gullbringusýslu. Móðir hans Helga Þórðardóttir frá Glaumbæ í sömu sveit. Kona Runólfs hét Hólmfríður Finnbogadóttir, Helga hét móðir Hólmfríðar; þau komu vestur frá Reykjavík 1901.

SIGURBJÖRN JÓNSSON Frímann frá Ási, Kelduhverfi. Hann er fæddur 1880. Móðir hans hét Kristín Jónsdóttir Bjarnasonar frá Dal í Þistilfirði. Kona Sigurbjörns er Sigurbjörg Hallbjarnardóttir, ættuð úr Mýrasýslu.



JÓN MÝRDAL Jónssonar Guðmundssonar. Móðir Jóns var Anna Sigurðardóttir frá Lambastöðum í Álftaneshreppi í Mýrasýslu. Kona Jóns Mýrdals var Ingveldur Guðnadóttir Jónssonar. Kona Guðna var Guðný Daníelsdóttir frá Hrafnabjörgum. Foreldrar Ingveldar bjuggu að Dunkárbakka í Dalasýslu. Jón Mýrdal er dáinn fyrir mörgum árum. Ingveldur giftist síðar Jóni Jóhannessyni.

NIKULÁS SNÆDAL ÞÓRARINSSON Jónssonar bónda á Breiðuvíkurstekk í Reyðarfirði. Nikulás var tvígiftur; fyrri kona hans var Ragnhildur Einarsdóttir Jónssonar bónda á Vestdalseyri við Seyðisfjörð; síðari kona hans Kristín Erlendsdóttir, systir Guðjóns Erlendssonar á Bluff við Manitobavatn. Þau systkini eru frá Skálholti í Árnessýslu.

TORFI JÓNSSON Torfasonar frá Sandbrekku í Norður-Múlasýslu. Kona hans var Jórunn Jóns-

dóttir Þórarinssonar frá Viðarstöðum Hjaltastaðaþinghá. Móðir Jórunnar var Kristín Bjarnadóttir frá sama bæ.

SIGURBJÖRN GUÐMUNDSSON. Foreldrar hans Guðmundur Tómasson og Sigríður Bjarnadóttir, er bjuggu á Vígholtsstöðum í Laxárdal. Sigurbjörn var tvígiftur. Fyrri kona, Guðrún Jóhannesdóttir, ættuð úr Laxárdal. Síðari kona, Gróa Magnúsdóttir Einarssonar frá Urriðafossi. Móðir Gróu var Ragnhildur Magnúsdóttir frá Laugardælum í Árnessýslu.

ALBERT EINARSSON Jónssonar bónda að Vestdalseyri í Seyðisfirði. Móðir Alberts Sigurbjörg Þorláksdóttir frá Engilæk í N.-Múlasýslu. Kona Alberts var Sveinrún Gísladóttir, ættuð úr Öræfum í Skaftafellssýslu.

JÓN VESTDAL EINARSSON Jónssonar bónda á Vestdalseyri í Seyðisfirði. Móðir Jóns var Sigurbjörg Þorláksdóttir frá Engilæk í Hjaltastaðaþinghá í N. Múlasýslu. Kona Jóns var Björg Sigurðardóttir, sem bjó að Setbergi í Fellahrepp sömu sýslu.

ÓLAFUR JÓNASSON Guðmundssonar frá Bílduhóli á Skagaströnd. Móðir Ólafs var Anna Jónsdóttir frá Dunkárbakka Hörðudal. Kona Ólafs var Sigríður Gunnlaugsdóttir fædd á Ytriskóhóli í Miðdal í Dalasýslu. Móðir Sigríðar var Guðrún Jónsdóttir frá Vatni í Haukadal.

ÁRNI EGILSSON frá Bakka í Öxnadal í Eyjafjarðarsýslu. Kona Árna var Sigríður Björnsdóttir Þorkelssonar frá Hofsós í Skagafirði. Kona Egils og móðir Árna var Helga Tómasdóttir, ættuð úr Öxnadal.

ÞORSTEINN JÓNSSON Hörðdal, sonur Jóns hreppstjóra í Hlíð í Hörðudal. Hann flutti hingað frá Dakota. Kona hans hét Ragnhildur Jónsdóttir smiðs, er bjó á Öxl í Breiðuvíkurhrepp Snæfellsnessýslu.

BJÖRN LÍNDAL var fæddur á Gautshamri í Strandasýslu árið 1853. Foreldrar hans Sæmundur Björnsson bóndi á Gautshamri, sonur séra Björns Hjálmarssonar í Tröllatungu. Móðir Guðrún Björnsdóttir bónda á Þórustöðum í Bitru í Strandasýslu. Árið 1883 kvæntist Björn Svövu Bjarnadóttur Kristjánssonar, ættaður úr Skagafirði. Móðir Svövu var Kristrún Sveinungadóttir, fædd á Keldunesi í Kelduhverfi í Þingeyjarsýslu.

SIGURÐUR JÓNSSON. Foreldrar hans, Auðunn Jónsson og kona hans Sigríður Erlendsdóttir. Þau komu hingað frá Reykjavík 1886 og settust að í Winnipeg. Sigurður Jónsson er fæddur í þessu landi. Hann kvæntist Margréti Bjarnadóttur Jónssonar. Móðir Margrétar og kona Bjarna var, Hólmfríður Þorsteinsdóttir frá Hraunkoti í Lónssveit í Austur-Skaftafellssýslu. Margrét kom vestur með foreldrum sínum 1901.



SIGFÚS SIGURÐSSON Erlendssonar fæddur að Klömbrum árið 1874 í Þingeyjarsýslu. Móðir Sigfúsar var Kristín Einarsdóttir. Kona hans er Sigurlaug Jónsdóttir; foreldrar hennar Jón Frímann Kristjánsson og Kristín Jónsdóttir frá Ási í Kelduhverfi í Þingeyjarsýslu. Hann kom vestur um haf 1889.

ÍSLEIFUR GUÐJÓNSSON Ísleifssonar. Móðir Ísleifs Kristín Bjarnadóttir bónda í Selvík á Langanesi í Þingeyjarsýslu. Kona Ísleifs Guðleif Jónsdóttir Jónatanssonar Þorkelssonar frá Flautafelli í Þistilfirði. Móðir Guðleifar Guðrún Sveinungadóttir Jónssonar Halldórssonar úr Kelduhverfi. Þau Ísleifur og Guðleif fluttu til Canada 1883 frá Flautafelli. Guðleif er eina landnámskonan, sem er á lífi, af þeim, sem komu 1887 og hefir alltaf átt heima í þessum byggðum. Auk barna þeirra, sem getið er um á bls. 91 í bókinni, er Kristín, Mrs. Sanders, búsett í Oregon, U.S.A. og Leifur, dáinn um tvítugt.

JÓN JÓNSSON (ÞISTILFJÖRÐ). Hann var bróðir Halldórs Jónssonar frá Grímsstöðum í Þistilfirði, (sjá bls. 95). Hann kvæntist ekki, skildi ekki eftir neina afkomendur.

FRIÐRIK KRISTMANNSSON Jónssonar og Jórunnar Jónsdóttur, er bjuggu á Litlavatnshorni í Haukadal í Dalasýslu. Kona Friðriks er Elín Guðrún, dóttir Jónas-

ar Jónssonar og Steinunnar Jónsdóttur frá Fremri-Vífilsdal í Hörðudal í Dalasýslu; flluttu til Canada frá Ólafsvík 1901.

BENEDIKT HJÁLMSSON Péturssonar alþingismanns og konu hans Helgu Árnadóttur frá Kalmannstungu í Hvítársíðu.

BJÖRN ÞORSTEINSSON Árnasonar frá Hofsstöðum í Hálsasveit, Einarssonar Þórólfssonar af Hvítársíðu. Móðir Björns Rannveig Björnsdóttir frá Fitjum í Borgarfjarðarsýslu. Kona Björns var Þuríður dóttir Hjálms alþingismanns Péturssonar frá Norðtungu í Mýrasýslu. Þuríður var yfirsetukona Grunnavatnsbygðar. Móðir Þuríðar var Helga Árnadóttir frá Kalmannstungu.

JAKOB JÓNSSON Jónssonar Pálssonar frá Breiðabólstað í Reyk holtsdal og Sigríðar Þorláksdóttur frá Hurðarbaki í Borgarfirði. Kona Jakobs var Ingibjörg Þorsteinsdóttir Guðmundssonar frá Sámsstöðum í Hvítársíðu og Ljótunnar Pétursdóttur, systur Hjálms Péturssonar alþingismanns.

HALLDÓR JÓNSSON bjó að Grímsstöðum í Þistilfirði. Kona hans hét Guðný, hún var ættuð úr sömu sveit. Halldór og Guðný settust að hjá Guðmundi Stefánssyni, sem var tengdasonur þeirra, og voru þau þar til dánardægurs.

SIGURÐUR HÓLM, sonur Daníels og konu hans Kristjönu. Kona Sigurðar er Sigríður Guðný Jóhannesdóttir Pálssonar söðlasmiðs og konu hans Elísabetar Snorradóttur, bæði ættuð úr Lunda reykjadal Borgarfjarðarsýslu, þau tóku upp ættarnafnið Borgfjörð. Heimili þeirra var í Reykjavík um 30 ára skeið. Sigurður Hólm er fæddur að Hólmlátrum á Skógarströnd. Hann flutti vestur með foreldrum sínum.

KRISTJÁN DANÍELSSON er sonur Daníels Sigurðssonar og konu hans Kristjönu (sjá bls. 94.) Kona Kristjáns er Kristjana Kristjánsdóttir Jörundssonar. Hún flutti til Canada 1897 frá Þverá í Eyrahrepp í Hnappadalssýslu.



STEFÁN DANÍELSSON. **Foreldrar** Daníel Illugason Bárðarsonar, og Margrét Jónsdóttir. Hún var ættuð frá Hraunsnefi í Norðurárdal í Mýrasýslu. Daníel bjó á Syðra-Lágafelli í Miklaholtshrepp í Hnappadalssýslu.

DANÍEL SIGURÐSSON Jónssonar bónda á Tjaldbrekku í Mýrasýslu, fæddur 1845. Giftist Kristjönu Jörundsdóttur Guðbrandssonar frá Hólmlátrum á Skógarströnd í Snæfellsnessýslu.



DANILÍA KRISTJANA Daníelsson. Fædd 28. september 1871 á Hólmlátri á Skógarströnd í Snæfellsnessýslu. Kom til Canada 20. júlí 1895. Foreldrar Danilíu, Daníel Sigurðsson og Kristjana Jörundsdóttir.

JÖRUNDUR HERGEIR DANÍELSSON er sonur fyrrnefndra hjóna, Daníels Sigurðssonar og Kristjönu konu hans. Hann kvæntist hér í byggð Kristjönu Margréti dóttur Kristjáns Sigurðssonar og Margrétar konu hans. (Sjá bls 84).

JÓNAS HALLDÓRSSON var fæddur 1845 að Björk í Staðarbyggð í Öngulstaðahrepp í Eyjafjarðarsýslu. Foreldrar Halldór Þorláksson Halldórssonar frá Jódísarstöðum og Guðrún Rósa Jóhannesdóttir Gunnarssonar Jónssonar, er bjó á Hólum í Eyjafjarðar sýslu. Jónas kvæntist árið 1870 Jóhönnu Jónsdóttur Halldórssonar frá Jódísarstöðum í sömu sveit.

SVEINBJÖRN SIGURÐSSON Sveinbjörnssonar Flóventssonar, sem lengi bjó að Landamótsseli í Köldukinn. Móðir Sveinbjörns var Pálína Pálsdóttir Pálssonar, gullsmiðs. Hann var af Reykjahlíðarætt. Kona Sveinbjörns var Sigríður Eirikka Einarsdóttir Jónssonar bónda á Vestdalseyri í Seyðisfirði í Norður-Múlasýslu.

GUÐMUNDUR TORFASON Tímóteussonar og konu hans Guðríðar Guttormsdóttur, er bjuggu að Skarðshömrum og síðar Glitstöðum í Norðurárdal. Kona Guðmundar Guðrún Þorsteinsdóttir frá Hæli í Flókadal Borgarfjarðarsýslu. Þorsteinn faðir Guðrúnar var fæddur á Sámsstöðum í Hvítársíðu. Kona Þorsteins var Ljótunn Pétursdóttir frá Norðurtungu í Norðurárdal.

JÓN OLSON Metúsalemsson, Jón er fæddur að Útnyrðingsstöðum á Völlum í Vallarhreppi í S.-Múlasýslu. Faðir hans var fæddur á sama bæ 1850. Móðir Jóns, Guðrún Einarsdóttir frá Rangá í Hróarstungu. Kona Jóns var Elín Jónsdóttir Þorleifssonar og Hólmfríðar Jósepsdóttur frá Hrísum í Helga fellssveit í Snæfellsnessýslu og hálfsystir Kristjáns P. Bjarnasonar í Winnipeg.

ÞORLÁKUR EINARSSON Eiríkssonar fæddur í Kollavík í Þistilfirði í Þingeyjarsýslu. Kona Þorláks var Steinunn Þorbergsdóttir bónda á Þingmúla í Suður-Múlasýslu.

JÓN JÓNATANSSON Þorkelssonar frá Flautafelli í Þistilfirði. Kona Jóns var Guðrún Sveinungadóttir Jónssonar Halldórssonar úr Kelduhverfi. Þeirra son, Jónatan, mjög gáfaður maður, dó ungur.

JENS ÞORGEIRSSON og Anna kona hans. Þau voru úr Laxárdal í Dalasýslu. Þeim er þetta ritar er ókunn ætt þeirra hjóna.

JÓN HELGASON frá Mófellsstöðum í Borgarfirði syðra, nam hér land. Hann er ógiftur og er til heimilis á Betel á Gimli.

SIGURÐUR SVEINBJÖRNSSON Flóventssonar frá Húsavík. Kona hans Pálína Pálsdóttir Pálssonar gullsmiðs; hann var af Reykjahlíðarætt. Þau hjón bjuggu með syni sínum, Sveinbirni (sjá bls. 96).

GUÐMUNDUR SIGURÐSSON bónda í Fögruskógum í Hnappadalssýslu. Móðir Guðmundar var Þórunn Einarsdóttir frá Dunk í Hörðudal. Kona Guðmundar Ingibjörg Halldóra Jakobsdóttir Sveins sonar frá Laxárholti á Mýrum. Móðir Ingibjargar var Rannveig Pétursdóttir frá Hólmakoti í sömu sveit.

SNÆBJÖRN HALLDÓRSSON er sonur Jónasar Halldórssonar og Jóhönnu konu hans, giftur Guðnýju dóttur Sveinbjörns Sigurðssonar og konu hans Eirikku, (sjá bls. 96).

EIRÍKUR RAFNKELSSON bjó að Hofi í Öræfum, sonur Rafnkels Bergssonar. Móðir Eiríks Þorgerður Sigurðardóttir frá Hofi í Öræfum.

RAFNKELL EIRÍKSSON, sonur Eiríks Rafnkelssonar og konu hans Steinunnar Jónsdóttur, bæði frá Hofi í Öræfum í Austur-Skafta fellssýslu. Kona Rafnkels, Halldóra Sveinsdóttir fædd í sömu sveit.

GUÐBRANDUR JÖRUNDSSON Guðbrandssonar frá Hólmlátrum á Skógarströnd í Snæfellsnessýslu. Kona Guðbrandar Jóhanna Ásgeirsdóttir Jónssonar frá Kýrunnarstöðum í Hvammssveit í Dalasýslu.

PHILIP JÓNSSON, hann er sonur Jóns Péturssonar og Guðríðar Filipusardóttur frá Vetleifsholti í Rangárvallasýslu. Kona Philips Þórdís Þorsteinsdóttir Þorsteinssonar. Móðir hennar, Þóra Oddsdóttir frá Vatnsenda í Borgarfjarðarsýslu.

GESTUR SIGURÐSSON hrepp stjóra á Kárastöðum í Borgarhrepp í Mýrasýslu Sigurðssonar Jónssonar frá Tjaldbrekku í sömu sýslu. Móðir Gests var Signý Bergsdóttir Teitssonar frá Hamraendum í Mið dölum í Dalasýslu. Kona Gests var Valgerður Jónsdóttir Ögmunds-

sonar. Móðir Valgerðar var Sigríður Þorbjörnsdóttir bjuggu á Spóamýri í Þverárhlíð.

VIGFÚS JÓSEPSSON Jónssonar er bjó á Hrísum í Helgafellssveit í Snæfellsnessýslu. Móðir Vigfúsar var Arndís Guðmundsdóttir frá Ölkeldu í Staðarsveit í sömu sýslu. Kona Vigfúsar var Guðrún Jóhannsdóttir frá Svelgsá í sömu sýslu. Vigfús og Guðrún bjuggu á Bergstaðakoti í Staðarsveit.

STEINÞÓR VIGFÚSSON, sonur ofnannefndra hjóna.

BJÖRN MAGNÚSSON Þorsteinssonar. Magnús faðir Björns bjó á Grímsstöðum við Reykjavík. Móðir hans var Vigdís yfirsetukona. Ekki er þeim, er þessar línur ritar ætt hennar kunn. Björn kvæntist hér vestra Ingibjörgu Þorsteinsdóttur Jónssonar Hördal. (Sjá bls. 91).

PÉTUR BJARNASON var fæddur 1857 á Kolbeinsstöðum í Miðnesi í Gullbringusýslu. Faðir hans var Bjarni Bjarnason á Söndum í Miðnesi. Móðir Péturs var Helga Þórðardóttir Þórarinssonar frá Glaumbæ í sömu sveit. Hann giftist Jóhönnu Hafliðadóttur Sigurðssonar. Móðir Jóhönnu var Guðrún Halldórsdóttir Þorvaldssonar frá Þverholtum á Mýrum. Árið 1882 missti Pétur konu sína og giftist aftur Hólmfríði Jósepsdóttur Jónssonar frá Hrísum í Helgafellssveit. Hún kom til Ameríku 1882.



**Hólmfríður Jósepsdóttir**

JÓN BJARNASON og Þuríður Helgadóttir, þau bjuggu á Beigalda í Mýrasýslu, og fluttu til Ameríku 1885.

JÓN JÓNASSON var fæddur að Lóni í Beruvík í Snæfellsnessýslu. Foreldrar hans voru Jónas Jónsson og Sigríður Jónsdóttir. Föðurbræður Jóns voru: Þórarinn, Ólafur og Pétur, þeir bræður bjuggu á Malarrifi. Kona Jóns var Kristjana Ólafsdóttir frá Búðardal á Skarðsströnd. Foreldrar Kristjönu voru Ólafur Jónsson og Guðrún Jónsdóttir, þau bjuggu að Hrísum í Helgafellssveit.

PÉTUR ÞORSTEINSSON var fæddur að Skorradal í Borgarfjarðarsýslu. Foreldrar hans voru Þorsteinn Guðmundsson og kona hans Sigríður. Kona Péturs var

Kristín Pétursdóttir að Ási í Húnavatnssýslu. Foreldrar hennar voru Pétur Guðmundsson og kona hans Björg. Þau fluttu í þessa byggð árið 1906 frá Winnipeg.

INGIMUNDUR GUÐMUNDSSON frá Tindum á Skarðsströnd í Dalasýslu. Móðir Ingimundar og kona Guðmundar var Karitas Gunnarsdóttir frá Heiðnabergi í sömu sýslu. Kona Ingimundar var Sólborg Guðmundsdóttir ættuð úr Dalasýslu.

JÓN JÓNSSON Jónassonar frá Þjófsstöðum í Núpasveit í N.-Þingeyjarsýslu. Móðir Jóns var Ástfríður Jónsdóttir fædd á Kílsnesi í Þingeyjarsýslu. Kona Jóns var Ágústa Jóhannesdóttir ættuð úr Reyðarfirði. Móðir Ágústu hét Snjólaug ættuð úr Fljótsdal.



JÓN GUÐMUNDSSON Jónssonar Guðmundssonar frá Bæ í Lóni í Austur-Skaftafellssýslu. Kona hans var Kristín Eyjólfsdóttir frá Eskifelli í Lóni.



GUÐMUNDUR JÓNSSON var sonur ofannefndra hjóna. Kona Guðmundar var Kristín Rafnkelsdóttir. (Sjá bls. 74).

BRYNJÓLFUR JÓNSSON var fæddur á Hólum í Hornafirði. Faðir hans var Jón Jónsson, sonur séra Jóns Bergssonar á Hofi í Álftafirði. Kona Brynjólfs Margrét Pálsdóttir. Faðir hennar var Páll Þorsteinsson úr Fljótshverfi í sömu sýslu. Móðir Margrét Ólafsdóttir frá Steinsmýri í Meðallandi. Þau hjón bjuggu allan sinn búskap á Fossi í Síðu.

Séra ALBERT E. KRISTJÁNSSON var fæddur 17. apríl 1877 í Ytri-Tungu á Tjörnesi í Suður-Þingeyjarsýslu. Foreldrar hans voru Kristján Sigurjón Guðmundsson og Helga Jóhanna Þórðardóttir, búandi hjón í Ytri-Tungu. Albert kom vestur um haf árið 1887 með foreldrum sínum, er settust að á Gimli og bjuggu þar til dauða-

dags. Kona Alberts er Anna, fædd 23. júní 1881 í Dæli í Sæmundarhlíð í Skagafirði; foreldrar voru hjónin Sigríður og Jakob Pálsson búandi í Dæli. Kom vestur um haf með móður sinni 1887 og settist að í Winnipeg. Mörgum árum seinna fluttu þær mæðgur til Gimli. Seinustu ár ævi sinnar var Sigríður í Selkirk og dó þar árið 1914.

BJARNI SIGURÐSSON bóndi á Setbergi í N.-Múlasýslu; kona hans var Elín Jónsdóttir. Flutti vestur um haf frá Seyðisfirði í Norður-Múlasýslu.

EINAR ÞORLEIFSSON sonur Þorleifs á Hrjót í Hjaltastaðaþinghá. Kona hans var Guðríður Sigfúsdóttir Sigurðssonar úr Njarðvík í N.-Múlasýslu.

GUÐMUNDUR ÞORLEIFSSON sonur Þorleifs bónda á Hrjót í Hjaltastaðaþinghá í Norður-Múlasýslu. Kona hans var Vilborg Jónsdóttir.

INGIMUNDUR JÓNSSON og Marselía kona hans voru ættuð úr Strandasýslu.

GUÐMUNDUR EINARSSON Guðmundssonar Sölvasonar hreppstjóra að Garði í Þistilfirði. Móðir Guðmundar var Guðrún Jónsdóttir Kristjánssonar og Guðrúnar Kristjánsdóttur; þau hjón bjuggu að Krossi í Fellum í N.-Múlasýslu. Kona Guðmundar Einarssonar var Kristín Benjamínsdóttir Kjartanssonar frá Grímsstöðum í Þistilfirði.

GUÐMUNDUR PÉTURSSON var fæddur í Arnardal í Ísafjarðarsýslu. Kona hans var Kristjana Jónsdóttir Halldórssonar bónda í Arnardal í Ísafjarðarsýslu.

JAKOB CRAWFORD Sigurðsson ættaður úr Breiðafirði. Faðir hans var Sigurður Sakaríasson frá Heydalsá, kona hans hét Helga. Um ætt hennar er þeim sem þetta ritar ókunnugt.

HALLDÓR EINARSSON frá Eyjaseli í Fellum í N.-Múlasýslu. Kona hans var Vilborg Gunnlaugsdóttir frá Flögu í Breiðdal í Suður-Múlasýslu, dóttir þeirra, Helga, dó fullorðin.

STEFÁN BJÖRNSSON Byron frá Svalbarði á Svalbarðsströnd við Eyjafjörð. Kona Stefáns var Guðbjörg Sigurðardóttir Sigurðssonar frá Kornhúsum í Hvalhrepp í Rangárvallasýslu. Kona Sigurðar og móðir Guðbjargar var Katrín Jónsdóttir. Systir Stefáns var Elízabet Freeman. (Sjá bls. 105).

GUÐMUNDUR JÓNSSON Austfjörð Þórarinssonar frá Viðarstöðum í Hjaltastaðaþinghá. Móðir hans var Kristín Björnsdóttir sama bæ. Fyrri kona Guðmundar var Jóhanna Sigurðardóttir úr Mjóafirði í S. Múlasýslu.

JÓN HANNESSON Jónatanssonar. Kona Hannesar var Sigríður Jónsdóttir. Þau hjón bjuggu um tímabil í Selhaga í Húnavatnssýslu. Ósk kona Jóns var fædd 1844 í Mjóabóli í Dalasýslu, dóttir Þorleifs Þorleifssonar bónda á ofannefndum bæ og konu hans Málfríðar Jónsdóttur.

MAGNÚS FREEMAN JÓNSSON Jónssonar, er eitt sinn bjó að Garðsá við Eyjafjörð, og Guðrúnar Jónsdóttur Halldórssonar, er síðast bjó í Árbót í Aðal-Reykjadal.

ÁRNI FREEMAN MAGNÚSSON var sonur ofannefndra hjóna og kom til þessa lands 1884, ásamt föður sínum. Kona Árna var Jónína Elízabet Björnsdóttir Jónssonar frá Dálkstöðum við Eyjafjörð. Móðir Elízabetar var Soffía Sigurðardóttir Þorsteinssonar. Sigurður faðir hennar var bróðir séra Hjálmars er síðast var prestur að Kirkjubæ í Hróarstungu. Fríman var skírnarnafn Árna, en ekki tökunafn.

SIGURÐUR MÝRDAL Jónsson Guðmundssonar. Kona Jóns var Anna Sigurðardóttir frá Lambastöðum í Álftaneshrepp í Mýrasýslu. Kona Sigurðar er Sigríður Guðmundsdóttir Vestman Guðmundssonar og konu hans Guðrúnar Guðmundsdóttur frá Jarðlangstöðum í sömu sýslu.

FINNBOGI ÞORGILSSON Árnasonar frá Rauðamel í Hnappadalssýslu. Hann var með fyrstu innflytjendum 1887. Móðir Finnboga og kona Þorgils var Guðrún Narfadóttir frá Rauðamel; synir þeirra hjóna komu með þeim, þeir Björn Magnús og Finnbogi. Kona Finnboga var Málfríður dóttir Jóns Hannessonar. (Sjá bls. 104).

JÓN EIRÍKSSON, sonur Eiríks bónda á Kárastöðum í Mýrasýslu. Kona Jóns var Elín Þorsteinsdóttir frá Skarði í Rangárvallasýslu.

BJÖRN JÓNSSON Þórarinssonar frá Viðarstöðum í Hjaltastaðaþinghá. Móðir Björns var Kristín Björnsdóttir frá Viðarstöðum. Kona Björns var Stefanía Sigfúsdóttir frá Gilsárvallahjáleigu í Borgarfirði eystra.

TORFI JÓNSSON Torfasonar úr Borgarfirði eystra. Kona hans Jórunn Jónsdóttir, systir Björns Jónssonar. (Sjá bls. 106).

FRIÐRIK (Fred) J. OLSEN er fæddur í Winnipeg. Faðir hans var Ólafur Ólafsson (Olsen) frá Vestur Súlunesi í Mela og Leirárhrepp í Borgarfjarðarsýslu. Móðir Friðriks var Helga Guðmundsdóttir frá Freyjukoti í Borgarfjarðarsýslu. Þau hjón giftust í Lockport Nova Scotia 1876. Námu land í Markland, N. Scotia. Friðrik er giftur Ágústu dóttur Björns Jónssonar Þórarinssonar frá Viðarstöðum í Hjaltastaðaþinghá. (Sjá bls. 106). Kona Björns var Stefanía Sigfúsdóttir frá Gilsárvallahjáleigu, Borgarfirði eystra.

GUÐMUNDUR ÍSBERG. Foreldrar Ásbjörn Sigurðsson og kona hans Guðrún Erlendsdóttir frá Þorgrímsstöðum í Breiðdal Suður-Múlasýslu. Kona Guðmundar var Margrét Ólafía Guðmundsdóttir Finnbogasonar og Guðlaugar frá Þorgrímsstöðum í Breiðdal í Suður Múlasýslu.

BESSI TÓMASSON Jónssonar frá Hermundarfellsseli í Þistilfirði. Móðir Bessa var Helga Bessadóttir. Kona Bessa var Járnbrá Benjamínsdóttir Kjartanssonar frá

Grímsstöðum í Þistilfirði; þau hjón hvíla í Mikleyjarkirkjugarði.

BJÖRN HÖRDAL er sonur Þorsteins Jónssonar (Sjá bls. 91) sonar Jóns hreppstjóra í Hlíð í Hörðudal. Móðir Björns var Ragnhildur Jónsdóttir frá Öxl í Snæfellsnessýslu. Björn er giftur hér í byggð Sigríði Jónasdóttur Halldórssonar. (Sjá bls. 96).

GUÐMUNDUR STEFÁNSSON Kristjánssonar, ættaður úr Þistilfirði. Kona hans var Jónína dóttir Halldórs Jónssonar og konu hans Guðnýjar úr Þistilfirði. (Sjá bls. 95). Uppeldisdóttir þeirra hjóna er Sigurlaug Jóhannsdóttir Björnssonar, nú gift Bjarna Nordal.

SVEINN SVEINSSON og kona hans Kristín fluttu hingað 1887, bjuggu þrjú ár í Norður-byggðinni og eitt ár í Grunnavatnsbyggðinni. Ætt þeirra er ókunn.

JÓN HÖRDAL Jónsson Sveinbjörnssonar frá Hóli í Hörðudal í Dalasýslu. Móðir Jóns hét Steinunn úr sömu sveit. Kona Jóns var Halldóra Baldvinsdóttir Arasonar frá Víðidal í Húnavatnssýslu.

Jón Hördal sonur ofannefndra hjóna var giftur Kristjönu dóttur Jóns Sigfússonar. (Sjá bls. 46).

GUNNAR HÓLM. Foreldrar Jón Stefánsson og Lára Þórðardóttir, þau bjuggu í Hólalandshjáleigu í Borgarfirði eystra. Kona Gunnars hét Guðný og var Stefánsdóttir Abrahamssonar frá Bakka í Borgarfirði eystra.



# Fiskiveiðar á Manitobavatni á frumbyggjaárunum

Eftir SKÚLA SIGFÚSSON

Fáeinar línur um frumbyggja Álftavatns og Shoal Lake byggða, frá fyrstu árum byggðarinnar og afkomu þeirra.

Þeir menn, sem komu hingað 1887 voru allir fátækir og höfðu aðeins mjög fáar skepnur. Þeir, sem mestan gripastofn höfðu, áttu 3 eða 4 kýr og sumir ekki nema 1 eða 2. Var því afkoma þeirra ekki góð, og urðu þeir því að leita sér atvinnu, hvar sem hana var hægt að fá. Helzt var þá vinnu að fá við járnbrautarlagningu eða í bænum Winnipeg. Að vísu voru nóg veiðidýr hér í skógunum, en lítið var um nothæfar byssur og menn voru dýraveiðum óvanir og fórst það ekki sem hönduglegast, komu þær því ekki að miklum notum. Af viltum fuglum var hér mikið; voru það mest endur, sléttuhænsni og Orrar (Partridge) lítið eitt smærri en sléttuhænsni.

Menn fóru því um haustið að búa sér til net og voru þau öll riðuð í höndunum og svo felld (seemed) flest 6 þuml. riði. Okkur var sagt að það væri mikið af fiski í Manitobavatni, og væri það hvítfiskur og sérlega góður. Þetta reyndist að vera rétt og fóru menn strax fyrsta haustið að vatninu að ná sér í soðið til matar og svo fyrir vetrarforða, netin voru svo stutt, aðeins 15 til 20 faðmar, að ekki var veiðin mikil, enginn bátur var til hjá okkur það haust, því að ekki var borðvið hægt að fá nema í Winnipeg eða Stonewall, sem er lítið nær. Netin voru útbúin með steinum, sem bundnir voru á neðri tein netsins, en á efri teininn var stungið viðarkubbum svo sem tólf þuml. löngum, þyntum ofan í 1 þuml. í annan endann og svo sagað upp í þann enda svo sem 2 þuml. og þeim svo stungið á efri teininn með 6 feta millibili til að halda netinu í sundur. Tveir stjórasteinar, sinn á hvorum enda netsins og dufl. Þetta gafst allvel, en bát gátum við fengið að láni hjá Kynblendingum, sem voru hér fyrir, er við komum. Tveir drengir, Björn og Sigurður, synir Jóns Metusalemssonar. Helgi Einarsson og bróðir hans Kristján, synir Einars Kristjánssonar fóru um haustið að útbúa sig fyrir vetrarveiðar. Fóru Helgi og Kristján til Narrows og voru þar yfir vetrarmánuðina og gekk vel. Björn og Sigurður fóru í Birkieyju og fiskuðu þar. Sá, sem þessar línur ritar fór líka til fiskiveiða og Jón Þorsteinsson frá Kirkjubóli í Norðfirði með honum, þeir félagar lágu í tjaldi þar til í febrúar og hættu þá. Plássið sem þeir voru á heitir Sugar Point (Sykurtangi). Ekki var mönnum þá kunnugt um að fiskur gekk á vorin upp í alla læki, sem runnu í Manitobavatn eftir að snjóa leysti, eða hvað auðvelt var að ná honum þar. En menn urðu þess strax varir fyrsta vorið og fóru þá að ná sér í fisk og tóku allflestir þátt í því. Ef einhverjir höfðu ekki net þá fengu þeir þau lánuð hjá þeim, sem átti þau. Reyndar þurfti hver ekki nema stuttan netstúf til að ná í allt sem hann vildi eða þurfti. Hér skal lýst lítillega, hvernig aðstaðan var þar sem mest var veitt.

Vatn það, sem Álftavatnsbyggð dregur nafn af, er norðvestur af íslenzku byggðinni og um 10 mílur enskar austur af Manitobavatni; lækur rennur úr því í Manitobavatn og er ekki djúpur. Fiskur gengur upp eftir honum á vorin og er mjög mikil gengd af honum. Aðalveiðistöðin var 1½ mílu frá Manitobavatninu. Menn fóru þangað vanalegast með vinnu uxa sína (tvíæki) tóku þegar þar var komið kassann af vagninum, notuðu hann sem bát til að komast yfir, ráku niður hæl á vesturbakkanum settu við hann hölgd eða spýtu, sem hægt var að draga streng í gegnum, og draga svo netið að sér í honum til að taka fiskinn úr og leggja netið aftur. Eitt net var nóg og gaf manni nægilegt að gera. Ef gert var að fiskinum og hann slægður, var netið orðið nógu fult til að draga það á land aftur og hreinsa úr því. Menn fengu þannig oftast nóg yfir daginn fyrir uxana að draga heim að kveldi. Oft voru þar 20 pör af uxum og einn

eða tveir menn með hverju. Flest sá ég þar 25 uxapör í einu. Þetta var mikil hjálp fyrir nýbyggja á þeim árum.

**Um vetrarfiskiveiðar undir ís**

Fyrst framan af var aðferðin við fiskiveiðar á veturna afar erfið og köld vinna. Menn hafa netin vanalega jafnlöng, 40—50 faðma. Fyrsta holan var höggvin 2—3 fet á lengd, svo er löngu borði smeygt ofan í hana og stefnt í þá átt, er leggja skyldi netið, þegar borðið er allt komið undir ísinn, er svipast eftir endanum á því, sem sést vel ef ísinn er glær; þá er önnur vök höggvin yfir endanum á borðinu og því svo ýtt áfram, þar til það er komið á enda. Þetta er endurtekið þangað til full lengd er fengin fyrir netið. Svo er haldið áfram með næsta net og þar til langur strengur af netum er kominn í vatnið. Strengur er festur í borðið og dregst hann undir ísinn og er hann eða lykkja af honum tekin upp um vökına, þegar lengdin á netinu er komin. Sama er gert um hvert netamót, nema í fyrstu og síðustu holunni, í þeim er aðeins einn endi, sem er festur í kló netsins og streng er hnýtt í, er netin eru dregin. Stöng er vanalega sett í eitt hornið á vökinni sem nær í gegnum ísinn og spotti ofan í netið svo streng bætt við þann enda, þegar netinu er dýft, og þegar búið er að draga það til baka þá er strengur bundinn í næsta net.

Á fyrstu árum drógu menn ætíð berhentir, og var það kalt verk, þegar frostgrimdir voru. Nú nota allir menn vettlinga bæði við að leggja netin og greiða úr fisk, en stundum þurfa þeir 6—7 pör yfir daginn. Ís getur orðið 4 til 5 fet hér á vötnunum í Manitoba og er þá mjög erfitt að færa net; þetta verður þó að gera, ef vel á að veiðast.

Fyrir mörgum árum eða um 1930 fundu fiskimenn upp nýja aðferð. Það er lítil vél, sem er sett niður í vök, er höggvin er í gegnum ísinn. Hún er sett þar niður í vatnið, strengur er bundinn í hana, svo þegar kippt er í strenginn létt, hleypur vélin áfram 2—3 fet í hvert sinn, og fer hún á fáum mínútum fulla netlengd; þar er höggvið gat á ísinn og strengurinn eða lykkja af honum tekin upp. Sama er gert við næsta net og svo framvegis. Þessi nýrri aðferð er nú alment notuð og gerir verkið léttara og fljótara. Nú eru sumir farnir að nota ísbora til að bora göt á ísinn, sem knúðir eru af mótorvél. Ekki eru þeir samt almennt notaðir enn. Það sparar mikla vinnu og er líka fljótlegra.

**Sumarfiskiveiðar á Manitoba vatni.**

Sumarfiskiveiðar byrjuðu á þessu vatni sumarið 1891. Var það maður í Westbourne, er Small hét, sem setti gufubát á vatnið og nokkra seglbáta til sumarveiða. Það heppnaðist vel og var víst ábatasamt, því Hugh Armstrong frá Portage la Prairie fór líka að gera út mótor- og seglbáta og sömuleiðis Helgi Einarsson frá Narrows. Þá lagði Canadian Northern Railway járnbraut að suðurenda vatnsins, sem átti aðallega að flytja fisk frá frystihúsi, sem byggt var í þorpinu Delta. Í Delta

var óheppilegt pláss, það stóð opið fyrir norðanvindum og fylti höfnina með sandi, þar er mikið útgrynni og að öllu leyti vond aðstaða. Gufubátarnir héldu því mest til við Sugar Point eða Swan Creek, báðar þær hafnir eru austan vatnsins. Helgi byggði frystihús við Swan Creek. Hvítfiskur var mikill þá í vatninu, en ekki liðu mörg ár þar til hann minkaði svo, að allir hættu sumarveiðum og fiskimáladeildin í Ottawa aftók að veita sumarleyfi framar.

Nokkrir Íslendingar stunduðu veiðar þessi ár á seglbátum fyrir áðurnefnd félög. Flestir voru þeir úr Siglunes- og Narrowsbyggðum. Eftir að sumarveiði hætti voru fiskiveiðar fyrir hvítfisk mikið stundaðar á veturna og höfðu margir mikið upp úr þeim, en vatnið er lítið í samanburði við sum stórvötnin í Canada, aðeins um 3000 fermílur að stærð, og mátti heita að hvítfiskur væri allur búinn úr vatninu 1925, en mikið var samt af öðrum fiski í þessu vatni og verður framvegis því 2 fiskiklök eru þar og er árlega klekjað út eitt hundrað og fimmtíu milljónum af nálfiski, sem er sleppt lausum á hverju vori. Margir vetrarfiskimenn vinna sér inn góða peninga hér enn. Ekki er ofsagt að yfir 1000 fiskimenn starfi og hafi atvinnu af fiskiveiðum árlega. Sum árin hefir þessi afli verið yfir átta milljón pund. Hefir verð fyrir nálfisk til fiskimanna orðið yfir 25c. pundið. Síðastliðinn vetur varð verðið hæst 20c. Fleiri fiskitegundir eru í vatninu, (Pike) gedda, (Tulibee) birtingur, Perch, Sauger og Sucker; þessi síðastnefnda fiskitegund er ekki verzlunarvara.

Á fyrri árum var allur vetrarfiskur seldur frosinn, pakkaður í kassa, sem taka 120 pund og er hann mest allur sendur á Bandaríkjamarkað. Fyrst var farið að senda ófrosinn fisk á þennan markað af þessu vatni veturinn 1915, og má ég fullyrða að Helgi Einarsson byrjaði á þeim viðskiptum. Stuttu síðar fór J. H. Jónsson frá Oak Point til þess og síðar margir fleiri. Þessi ferski fiskur er pakkaður í kassa, sem innihalda 50 pund af fiski. Ís er látinn í botninn og ofan á, svo er hann sendur með hraðlest, til einhverra af stórborgunum í Bandaríkjunum. Mest fer til New York, Chicago, Philadelpia og víðar. Það má heita að 90% af öllum Manitobafiski sé sendur suður þangað.

Það hefir máske verið óþarfi að skrifa ofanritaða grein fyrir fólk í þessari byggð, en þessi bók verður send eða seld á Íslandi. Munu sumir þar hafa gaman af að heyra um verknaðarhætti hér vestra, og með það í huga hefir þessi litla tilraun verið gerð að skýra frá fiskiframleiðslu hér á Manitobavatni.

☆

# Fiskiveiðarnar í Manitoba

**Útdráttur úr erindi fluttu fyrir „The Winnipeg Board of Trade", 7. mars, 1946**

Eftir PAUL REYKDAL

Umtalsefnið, sem mér hefir verið falið til íhugunar í dag, eru **fiskiveiðarnar**, sem í aðaldráttum fjallar um Sögu fiskiveiðanna, þýðingu þeirra og verðmæti fyrir Manitoba og Winnipegborg, vandamál fiskiveiðanna, og að síðustu framtíð fiskiveiðanna. Að fara nákvæmlega inn í öll þessi atriði mundi taka lengri tíma en mér er ætlaður, svo ég ætla að reyna að gefa ykkur stutt yfirlit yfir aðalatriðin sem liggja fyrir til umræðu.

Fyrstu endurminningar, sem ég hefi um fiskiveiðar, eru frá þeim tíma, er ég var unglingur fyrir meira en fimtíu árum og var að hjálpa til að riða net úr netjagarni. Þegar við höfðum lokið við tvo eða þrjá netjastúfa, svo sem tuttugu faðma langa, héldum við að við ætt um býsna mikla útgerð. Við fórum með þessi net niður að læk, er fellur úr Manitobavatninu, fleyttum okkur yfir á vagnkassa og rákum hæla með járnhring í niður í lækjarbakkann hinumegin ; rendum svo snæri í gegnum hringinn, og drógum þannig netin fram og til baka. Þegar við fengum veiði, teymdum við uxana þangað, köstuðum fiskinum í vagninn og keyrðum heim. Sumt af veiðinni hertum við og sumt söltuðum við til heimilisnota.

Á haustin fórum við í litlum róðrarbát út á vatn og lögðum netin, höfðum steina fyrir sökkur og víðibúta fyrir flotholt. Þessi fiskur var einnig saltaður til heimabrúks. Að vetrinum voru netin dregin undir ísinn, og fiskinum hrúgað saman á vatninu. Þegar við héldum að við hefðum nóg í vagnhleðslu, festum við vagnkassa á sleða, spentum uxana fyrir, hlóðum kassann fullan af fiski og keyrðum af stað til markaðs. Við lögðum tuttugu til tuttugu og fimm mílur af landi undir fót með fimmtán hundruð til tvö þúsund punda hlassi, og var það hið mesta sem uxarnir gátu dregið á þeirrar tíðar vegleysum. Þegar við komum austur í bygðina nálægt Stonewall seldum við bændunum þar sumt af veiðinni, en afganginn fórum við með til Winnipeg og seldum þar fyrir hvað sem fáanlegt var, svo að við gætum keypt fyrir það aðrar lífsnauðsynjar.

Þessar endurminningar taka mann aftur í tímann til ársins 1844, þegar allar fiskiafurðir Canada námu aðeins 125,000 dollurum. Árið 1943 námu fiskiveiðarnar 86 milljónum dollara, og á þessu ári (1946) fara þær yfir 100 milljónir. En af því að við verðum að binda okkur við Manitoba aðeins, skal ég reyna að gefa yfirlit yfir fiskiframleiðsluna þar.

Í vertíðinni 1931—32 nam fiskiveiðin í Manitoba 17,000,000 punda, sem seldist fyrir $1,120,000. Framleiðsla og sala jókst árlega frá þeim tíma fram að 1940—41, þegar veiðin nam alls 38,886,000 pundum og var seld fyrir tvær og þrjá fjórðu miljón dollara. Árin 1942—43 féll veiðin niður í 33,000,000 pund og seldist fyrir $4,500,000. Og 1944—45 féll hún enn niður í 28,000,000 punda og var seld fyrir $3,200,000. Þetta var að nokkru leyti því að kenna, að stjórn Bandaríkjanna setti hámark fyrir öll þrjú sléttufylkin, jafnframt því sem engin takmörk voru sett hinum sex fylkjunum, né heldur öllum fjörutíu og átta ríkjum sambandsins. Í þessu sambandi vil ég geta þess, að 95% af öllum Manitoba fiski er seldur í Bandaríkjunum. Veiðin á árunum 1945—46 verður hærri en í fyrra, og með núverandi verðlagi er óhætt að segja, að öll fiskisala fylkisins muni nema $6,000, 000.

Á Winnipegvatni eru þrjár vertíðir. Í sumarvertíðinni, júní og júlí, er leyft að draga 3,000,000 pund af hvítfiski, og ganga til þess 150 fjögra-mannaför, mótor knúð, frá átján verstöðvum. Þá er haustvertíð í september og október, og ganga þá frá ellefu til tólf hundruð bátar frá fimmtíu stöðvum, og að síðustu er vetrarvertíðin, frá nóvember og fram í mars, þegar frá ellefu til tólf hundruð manns stunda fiskidrátt á Winnipegvatni.

Ég skal í stuttu máli gefa yður hugmynd um áhöfn og verðgildi hennar við fiskiveiðar á Winnipeg vatni. Er þá fyrst að telja 175 vélbáta, sem kosta frá þrettán til tuttugu og fimm hundruð dali hver. Aðeins 150 af þeim eru í förum í hvítfisksvertíðinni. Með því að sumir þessir bátar eru farnir að eldast virði ég þá á $1200 dali hvern eða alls $210,000. Á hverjum bát eru þrjátíu til þrjátíu og þrjú net. Með sökkum og flotholtum kostar hvert um sig kringum 25 dali, og með þrjátíu á bát hvern $750.00, eða 112,500.00 alls fyrir 150 báta. Þá eru ellefu fiskiflutningsskip á vatninu, sem kosta stórupphæðir. Ef hvert þeirra er virt á $20,000.00 þá nema þau alls $220, 000.00.

Alls eru 1200 fleytur á Winnipegvatni. Sumar hafa utanborðshreyfla, aðrar innanborðs. En allur fjöldinn er dreginn af venjulegum gasvélabátum. Ef hver þessi fleyta er virt á 50 dali, þá koma þær allar upp á $60,000.00. Veiðarfærin koma upp á $250.00 fyrir hvern bát, og fyrir 1100, sem gerðir voru út á síðasta hausti, verður það samtals $275,000.00.

Við Winnipegvatn eru átján hvítfiskiver, sem að jafnaði munu kosta $6000.00 hvert; það verður samtals $108,000.00. Þá eru fimmtíu haustfiskiver, sem kosta að meðaltali $1000.00 hvert eða samtals $50,000.00.

Að meðaltali mun útgerð hvers fiskimanns kosta í vetrarvertíðinni um 300 dali, en allur þorri þeirra eiga útbúnað frá fyrri tímum, svo sanngjarnt mun að meta kostnaðinn $400.00 á mann. Fyrir 1100 menn, sem stunduðu þar fiskiveiðar í fyrra nemur þetta $440,000,00. En fyrir alla útgerðina í Winnipeg vatni fyrir árið verður upphæðin $1,485,500.00.

Í Manitoba eru sjötíu og níu fiskivötn. Í mörgum þeirra er fiskað til sölu og útflutnings, en öðrum ekki. Við þau, sem fiskað er í í stórum stíl, eru stöðvar, fiskibátar, flutningsskip o. s. frv., auk netja. Með því að Winnipegvatn framleiðir í kringum helming alls fiskjar í Manitoba, er sanngjart að áætla útgerðina við öll önnur vötn í fylkinu á $1,000,000.00.

Fimm hundruð flutningsbílar eru notaðir í sambandi við fiskiveiðarnar í Manitoba. Þeir smæstu, sem bera aðeins hálft tonn, kosta frá tíu til tólf hundruð dali, aðrir, t. d. vagnar með Diesel-vélum, kosta frá átta til tíu þúsund dali hver, svo ekki er ofhátt að virða þá að meðaltali $2000.00 hvern, eða eina milljón dali alla fimm hundruð vagnana. Auk þessa eru um hundrað skriðdrekar (Caterpillar Tractors) í fylkinu við fiskflutning. Þeir kosta frá $5000 til $10,000, 00 hver, eða sem næst $800,000.00 samtals. Sleðar, eldhúsvagnar og önnur áhöld fyrir hverja dráttarvél nema fullum $2000.00 eða als $200,000.00. Nemur þá öll fiskiútgerð fylkisins samtals $4,485,500.00. Í þessu eru ekki talin vélsleðar (snowmobiles), hestar, hundar, flug vélar, veiðileyfi, leigur o. s. frv. Ef þetta er tekið með í reikninginn verður heildarkostnaður við fiskiútgerðina í Manitoba vel yfir fimm milljónir dala.

Útgerðarmönnum í fylkinu voru veitt 5,435 veiðileyfi á þessu ári. Þetta tekur ekki með í reikninginn aðra, en þá, sem atvinnu hafa við fiskiiðnaðinn. Í hverju fiskiveri eru allmargir landmenn, sem annast pökkun, mörkun, og flutning, skrifstofufólk í Winnipeg, menn sem búa til flotholt, (af þeim eru ein milljón seld árlega), smíða báta, riða net, sjá um vörugeymslu o. s. frv., sem eykur að miklum mun tölu þeirra, er atvinnu hafa af fiskiveiðunum. Við þetta leyfi ég mér að bæta, að fiskiveiðar í Saskatchewan og Alberta nema til samans í kringum tveim þriðju á borð við Manitobaframleiðslu, og mikill hluti þeirrar veiði er höndlaður af fiskifélögum í Winnipeg.

Þetta er þá í stuttu máli yfirlit yfir sögu og rekstur fiskiveiðanna og þýðingu þeirra fyrir fylkið og Winnipeg. Þá komum við að vandamálunum. Þau eru svo mörg, að ég vil aðeins benda á fáein.

Sex sundurgreindir flokkar manna starfa í sambandi við fiskiveiðarnar. Fyrstir eru sjálfir fiskimennirnir, sem draga veiðina á land. Næst eru verzlunarmennirnir, sem selja veiðarfærin. Þá eru fiskisölufélögin í Winnipeg, sem leggja fram fé til kaupmanna, er leggja til nauðsynjar fiskimannanna. Svo eru heildsöluhúsin í Bandaríkjunum. Þar næst eru víxlarar, sem kaupa af heildsölunum, og selja aftur til smásalanna, sem að endingu selja neytendum. Þrátt fyrir það, að allir þessir flokkar manna eru viðriðnir fiskiframleiðsl una, hefir ekki áður, og á sér enn ekki stað, sú samvinna, sem nauðsynleg er til að koma þessari framleiðslugrein í viðunanlegt horf. Það er ekki óalgengt, að fiskimaður láti annars flokks vöru í kassana og heimti hæsta verð fyrir, af því að hann skuldar kaupmanninum, sem svo sendir hana áleiðis til

hins næsta af sömu ástæðum. Einhversstaðar á leiðinni rís óánægja, sem oft er á rökum bygð, og af því að þetta á sér stað, þá koma stundum umkvartanir, sem ekki eru ávalt sanngjarnar. Alt þetta skapar óánægju, sem afstýra þarf og laga eins fljótt og unt er. Það er ekki óalgengt — eða var ekki óalgengt meðan New York átti meiri þátt í fiskisölunni en nú — að sumir menn fengju aðeins 12c. fyrir pundið, þegar aðrir fengu eins hátt og 45c. fyrir pundið á sama tíma. Mismunurinn lá vitanlega í vörugæðunum. Því fyr sem strangara eftirlit á sér stað, svo ekki verði send á markað nema fyrsta flokks vara, því fyr kemst markaðurinn í betra horf, og því fyr hverfur sú tortrygni, sem nú á sér stað.

Stundum kemur það fyrir, að fiskimenn við Winnipegvatn fara út með öll sín net, leggja þau, og stórviðri skellur á. Netin reka í grjóturðir eða trjárætur, og þegar storminn lægir, eru netin eyðilögð. Þá rís sú spurning, hvort beri að styðja þá til áframhalds eða láta þá hætta og taka skaðann, sem af þessu leiddi. Venjulegast er að láta þá fá netin að nýju, og ef tekjuhalli er við vertíðarlok, að strika hann þá út í sumum tilfellum. Stundum fara fiskimenn snemma vetrar út á þunnan ís, og leggja netin. Stormur blæs, brýtur upp ísinn og það sama skeður — netin týnast. Fiskimaðurinn stendur eftir tómhentur og fær þá venjulega aðra útgerð, og það sama endurtekur sig. Í samfleytt fimmtíu ár hefi ég, að ég held, þekt hvern einasta mann, sem keypt hefir og höndlað fisk hér um slóðir. Sumir af þeim eru nú gengnir til hinstu hvíldar, en enginn þeirra, svo ég til viti, hefir eftirlátið fjölskyldu sinni nokkuð sem um munaði, þegar hann dó. Ég er að vona, að framtíðin fari mýkri höndum um þá, sem enn lifa og atvinnu hafa af fiskiveiðum.

Hér er eitt dæmi, sem skeði fyrir skemstu. Hér í norðvestur liggur veiðivatn, sem Winnipeg fiskiverzlanir hafa lagt fjórðung úr milljón dollara í að starfrækja. Fyrir ekki löngu síðan var dregið $400,000.00 virði af fiski úr því. Í haust féll þriggja feta djúpur snjór á fjögurra þumlunga þykkan ís. Frostið er langan tíma að komast í gegnum svona djúpan snjó. Snemma í janúar lögðu tvær útgerðir af stað til að ryðja þangað veg, yfir keldur, ár og stöðuvötn. Það tók þessa menn tíu daga, að komast þangað, og bættust þá tveir aðrir í hópinn. Þegar þeir voru komnir um tuttugu mílur út á vatnið brotnaði ísinn, og sökk ein dráttarvélin með manninum og allri áhöfn niður á tvö hundruð feta dýpi. Maðurinn drukknaði. Þrír, með allri áhöfn, snéru til baka, en einn hélt áfram — sagðist hafa farið þangað til að flytja fisk. Hann var fimm vikur á vatninu, ruddi brautir fyrir sjálfan sig og aðra, og þegar því var lokið, rendu aðrir í kjölfar hans. Mikið af þessum fiski er komið af vatninu, og vonandi kemst megnið af honum til markaðs, fyrir tilstilli þessa eina manns, sem hafði djörfung og þrek til að halda áfram, þegar aðrir gáfust upp. Þessi maður hefir haldið áfram hvíldarlaust

í einn til tvo sólarhringa í einu, vansvefta og blautur upp í mitti. (Maður þessi er Sveinn Sigfússon, sonur Skúla Sigfússonar að Lundar).

Enn annað vatn liggur þar vestur frá með $50,000.00 virði af fiski ofan á ísnum. Lítið útlit var fyrir, að hægt yrði að komast þangað. En þessi sami maður ruddi þangað braut, og er nú fiskurinn á leiðinni. Núna fyrir fjórum dögum sukku dráttarvél og maður á tvö hundruð feta dýpi. Þrjár aðrar dráttarvélar hafa sokkið í þetta vatn, en mönnunum verið bjargað.

Þetta er nú sumt af vandamálum fiskiframleiðslunnar. Um framtíð hennar vitum við auðvitað ekki — hún liggur í kjöltu guðanna. En sagan sýnir oss, að framfarir hafa átt sér stað, afurðirnar hafa aukist ár frá ári, með örfáum bakföllum í einstöku vertíð, og það er skoðun mín, að fiskiveiðarnar þróist og ágóðinn haldi áfram að aukast. Það eru enn til ónumin vötn, full af fiski, í Norðvestur landinu og öðrum fjarlægum landshlutum Canada, sem ekki hefir verið hægt að hagnýta vegna samgönguörðugleika. Þá örðugleika má yfirstíga með flugvélum, sem flutt geta þungar byrðar.

Það er löng leið staðfest í milli sameykis uxanna, sem dregið gátu 1500 til 2000 punda vagnhlass og ferðast tuttugu til tuttugu og fimm mílur á dag, og dráttarvélanna, sem draga í einu tuttugu til fimmtíu smálestir og geta runnið hundrað mílur á dag. En þó er enn meiri munur í milli dráttarvagnsins og flugvélarinnar, sem lyft getur í einu alt að fimmtíu smálestum, og flogið 150 til 200 mílur á klukkustund, og á því byggist, að mínu áliti, framtíð fiskiveiðanna. Ef við getum flutt í loftinu fiskinn, sem dreginn er í dag, og haft hann á sölutorginu á morgun, verða yfirstígnir margir örðugleikar liðna tímans, að því er snertir vörugæði og verðhækkun fiskiafurðanna.

**Viðbætir**

Saga fiskiveiðanna í Manitoba væri eigi fullsögð, ef Íslendinga væri þar eigi getið, mannanna, sem mest hafa stundað þær, síðan þeir fluttust til Canada, og stuðlað meira en nokkrir aðrir að viðgangi þeirra. Árið 1928 var helmingur allra fiskimanna í Manitoba Íslendingar. Þeir drógu á land áttatíu prósent alls fiskjar, sem veiddist í vötnum fylkisins. Síðan hefir annara þjóða fiskimönnum fjölgað ört og farið fram undir leiðsögn Íslendinga. Íslenzkum fiskimönnum hefir ekki fjölgað að sama skapi, svo nú nema þeir aðeins fjörutíu prósentum allra útvegsmanna í fylkinu; en þeir veiða enn helming alls aflans.

Íslendingar eru brautryðjendur að eðlisfari, og hvenær sem nýtt veiðivatn hefir verið uppgötvað, hafa þeir orðið fyrstir manna til að leggja net sín þar. Þeir hafa, samt sem áður, ekki ávalt haft þann hagnað af atorku sinni og árvekni, sem þeir áttu skilið. Og ein ástæðan fyrir því er sú, að mörg af þessum vötnum er erfitt að sækja, og kostnaðurinn við flutninginn mun meiri, en áætlað var í fyrstu. Það er ekki fyr en brautir hafa verið ruddar til þessara vatna, að ágóði fæst af veiðunum.

Útgerðarmenn úr Lundarbygð-

inni hafa að jafnaði byrjað veiðar í Manitobavatninu, af því það er næst heimilum þeirra. Og þó það sé smátt í samanburði við sum önnur veiðivötn, hefir mest af ófrystum fiski verið flutt þaðan til markaðar, sem stafar að nokkru af því, að járnbrautir liggja að því beggja vegna.

En af því veiðar eru leyfðar við það vatn aðeins að vetrinum, þá leita fiskimenn þaðan tíðum í fleiri áttir, og hafa orðið fyrstir til að reyna önnur vötn. Meðal þeirra má einkum nefna Hreinsvatn (Reindeer Lake) í Saskatchewan fylkinu. Margar tilraunir hafa verið áður gjörðar, af annara þjóða mönnum, að hafa útveg við þetta vatn, en ávalt mishepnast. Að lokum fór hópur íslenzkra fiskimanna frá Lundar þangað árið 1941 og drógu tíu sinnum meiri fisk á land á fyrsta árinu en nokkrir aðrir höfðu áður gjört á jafn löngum tíma áður. Síðan hefir veiðin úr Hreinsvatni verið meiri en úr nokkru öðru vatni í Saskatchewan.



# Fyrsta dráttarvélin



Fyrsta vél, sem flutt var inn í þessar byggðir og ætluð var til plæginga, var eign þeirra félaga, Kristjáns P. Bjarnasonar og Þorsteins Goodman, er áttu heima í Grunnavatnsbyggð. Var það „Case" gufuvél 25 hesta dráttarafl, með 36 þumlunga breiðum hjólum. Mun vél þessi hafa verið ein af þeim fyrstu, sem var sérstaklega byggð fyrir plægingar; keyptu þeir félagar hana árið 1909 ásamt plógum og öðrum útbúnaði.

Ástæðan fyrir því að þeir lögðu út í þetta stóra fyrirtæki var sú, að margir voru komnir á þá skoðun að griparæktin ein væri ekki nóg, það þyrfti einnig að yrkja landið, en það var næstum ókleyft með hestum og uxum, því landið var grýtt og skógi vaxið. Á þessu sama ári flutti bóndi í byggðina, sem hét John Popplewill, hann kom frá Ontario, og ætlaði að plægja land sitt með átta efldum hestum, honum tókst það ekki, braut verkfærin og hestarnir uppgáfust. Fyrsta verk þeirra félaga var að plægja hundrað ekrur fyrir þennan mann. Unnu þeir að plægingum fyrir bændur í báðum byggðunum næstu fjögur sumur. Sigldu fleiri í kjölfar þeirra. Með fjölgun véla inn í byggðirnar, vaknaði meiri áhugi fyrir jarðrækt hjá mönnum yfirleitt.

# Ferðapistlar

Eftir MAGNÚS MARKÚSSON

*Þessi kosningabragur, er hér kemur almenningi fyrir sjónir, er ortur af skáldinu, Magnúsi Markússyni í skrásetningarferð, fyrir fylkiskosningarnar 1908. Í ferðinni tóku þátt Baldvin Baldvinsson, Páll Reykdal, Magnús Markússon og Skúli Sigfússon. Baldvin var þá fylkisþingmaður okkar fyrir Gimli-kjördæmi. Álftavatns- og Grunnavatnsbyggðir voru þá partar af Gimli-kjördæminu. Bragurinn var ortur hér og er því að nokkru leyti sveitabragur byggðanna; hann hefir ekki verið prentaður fyrr, og er því settur hér svo að hann falli ekki í algerða gleymsku. Bragurinn lýsir því vel, hvað menn gátu unnið vel saman þó þeir hefðu mismunandi skoðanir á pólitískum málum þess tíma. Auk þess er hann vel ortur, og má vel brosa að gamninu, er þar kemur fram.*



Nú skal greina garpa fjóra,
greiða sem að keyrðu jóra
vítt um byggð með virðing stóra,
vanir lífsins orrahríð.
Baldvinsson og Reykdal reistu
Roblin flagg og völdum treystu,
yfir vegi gleiðir geystu;
görpum brosti heilla tíð.
Magnús þar og Skúli skreyttu
skatna för og hreysti beittu,
fram að merki frelsis þeyttu,
fúsir til að benda lýð.

Kristján heitir höldur valinn,
háan byggir rausnar salinn,
hann er dyggur „Tory" talinn
týhraustur með ráðin góð;
þangað Reykdal hélt með hraða,
hugði „grittum" vinna skaða,
fór í sinni bók að blaða,
bretti stél og hló við fljóð.
Fram var borinn beini góður,
brostu sætar hringatróður;
stjórnarinnar skjala skjóður
skrjáfuðu með voða hljóð.

Kristján bónda kvöddu glaðir
kappar snjallir hertýgjaðir;
fákar stukku hlaupa hraðir
hrjóstrug þó að væri braut.
Baldvinsson og Reykdal ræddu,
réðu ferð og veginn þræddu,
frá sér dýr og fugla hræddu,
fylltir Roblins-stjórnar graut.
Eftir fóru hraustir hinir
hreinlundaðir fólksins vinir
Skúli og Magnús; dimmir dynir
drundu um grundir, hæð og laut.

Roblinsstjórnar skrínin skröltu
skaðvænleg í Reykdals kjöltu;
fram þar knáir fákar töltu
flóa, grundir, skóg og hraun.
Stofnar fuku, stormur buldi,
storðu nísti heljar kuldi,
myrkur jörð og himinn huldi,
hér var sár á ferðum raun.
Allt sem lifði fór á flótta,
feykilegum hrifið ótta.
Kvað við rödd af þungum þótta:
þetta eru Roblins synda laun.

Nóttin dimma foldu faldi;
flaskan kom að góðu haldi;
söng í háu himinn tjaldi
hræðilegur þrumu gnýr;
fákar traustir féllu niður;
ferðin tepptist, það fór miður;
engu sýndist gefinn griður,
góðu ráðin voru dýr.
Brustu tré í blindhríðinni,
Baldvin þá í fyrsta sinni
bað til guðs að bölið linni.
Bognar flest þá neyðin knýr.

Reykdal, vísdóms ráði fylltur,
reisti fáka sinnis trylltur,
mælti: aldrei var ég villtur,
víða hvar sem fór um grund.

Nú má enginn neitt sér hlífa,
nú skal héðan burtu svífa,
norðan skæð þó drynji drífa
dapra yfir nætur stund;
Stefáns bónda höll skal hitta,
hann þó teljist meðal „gritta",
gestum vill hann stríðið stytta
stórhöfðingja gæddur lund.

Stundi fold en stormur geisti,
styrk og fjör úr æðum kreisti.
Þá var drengjum þörf á hreysti,
þrumdu kvalahljóð um völl.
Hölda mæddu þúsund þrautir,
þrutu pólitískar flautir.
Yfir svalar synda brautir
sýndust þrotin ráðin öll.
Svona gengur lífsins leiðin.
Löngum þegar stærst er neyðin
hjálp er næst og góður greiðinn.
Garpar litu þreyða höll.

Stiltu ferð og strax á grundu
stigu þá með kætta lundu,
fegnir helgri friðar stundu,
fundu síðan húsbóndann,
skjálfandi um skýli báðu,
skjótt og allt hið sanna tjáðu.
Stefán þá úr böli bráðu
bjartan leiddi inn í rann.
Konur værum blundi brugðu
bjarga komumönnum hugðu,
vel að kærleiks verki dugðu,
viðkvæmnin í hjarta brann.

Húsfreyjan, það kosta kvendi,
kærleiks yl um húsið sendi,
veitti ríkri rausnar hendi;
rekkum þótti vistin góð.
Þá var skrafað, sungið, setið,
sopið á og líka étið.
Öllum gleymdist harða hretið,
heilla stundir vermdu blóð.

Reykdal fór að hækka hljóðin,
hringlaði með stjórnar sjóðinn,
keypti „Hörg“ að kveða ljóðin;
karlinn fór í vígamóð.

Allt nam þar að óskum ganga.
Eftir hvíld og veizlu langa
ferð var hafin; hérar stanga
hlupu beint til gamla Páls;
það var karl í krapi áður,
knár, en þótti nokkuð bráður,
lögum afturhaldsins háður,
harðsnúinn með tungu stáls.
Hann við Baldvin röskur ræddi,
regin kynja straumur flæddi:
Margan „gritta“ hjör minn hræddi,
hér þeim naumast vist er frjáls.

Svo frá Páli höldar héldu,
hestar óðu fen og keldur,
ströng var leið, en stjórnin geldur
starfið; það er leikurinn.

Reykdal þá með frækni frána
fýsti að hitta Indíána.
Dökku frúrnar brettu brána
buðu piltinn velkominn.
Þá var allt hið bezta boðið,
bakað, steikt, og hrátt, og soðið.
Fylkisstjórnar góða goðið
galt þeim fyrir útlátin.

Margt á ferðum fleira skeði,
fátt til þarfa sumt til gleði.
Alltaf sami andinn réði.
afturhaldsins voða ráð.
Eftir stríð og þungar þrautir,
þúsundfaldar krókabrautir,
kaldir, svangir, beygðir, blautir
Bragnar litu heima láð.
Reykdal eftir ræðuhöldin
ræskti sig og meðtók gjöldin.
Meðan hrókar hafa völdin
honum verður auðsýnd náð.

# Ljóðabréf til Páls Reykdals

Kvæði eftir MAGNÚS MARKÚSSON

Reykdal minn, ég byrja braginn,
býð þér vinur góðan daginn.
Ertu frískur, mikli maginn
mettur Roblins baunum af?
Manstu þegar ferð við fórum
forðum yfir sveit á jórum
skreyttir listastöfum stórum;
stundin leið við gleði skraf.

„Pleasant Home“ er höfðings-
staður,
hugurinn þar lyftist glaður.
Ógiftur hver mundi maður
meyju girnast, sem þar býr.
Tæp oss gafst þar tíð að ralla,
tókum norður braut til „Galla“,
sáum hylki, byttur, balla,
börn og kálfa, villidýr.

Gildar kvinnur, baulur, bola,
bústna ketti, hryssur, fola.
Lyktina var þungt að þola,
þaðan fegnir héldum brott
inn í „Toulons“ háu hallir,
höldar þar sem búa snjallir.
Kátir við oss voru allir,
vínið freyddi ljúft og gott.

„Saint Addaird“ við síðan fundum,
sátum þar en lítt oss undum.
Þar var gnægð af grimmum
hundum,
gaulið drundi kálfum frá.
Knappt var þar um fína fæðu
fegurð eða skemmtiræðu;
bóndinn líktist hólma hræðu,
húsmóðirin þunn og grá.

„Carter“ þar með konu fína
kom að „lista“ vini sína.
Yfir borðum baugalína
bænir þuldi klökk og heit.
Næst til Gests við lögðum leiðir,
létta fáka keyrðum gleiðir.
Broshýr sprund og málma meiðir
mættu oss í þessum reit.

Allt bar vott um gnótt og gæði,
gott var bæði rúm og fæði;
hjörð á þessu sælu svæði
sýndi bóndans auðnu kjör,
lömbin, hænur, hanar, geitur,
hrútar, kýr og boli feitur.
Þarna bjartur byggðar reitur
brosti þýtt með líf og fjör.

Marga fleiri fína staði
fundum við, en það var skaði
okkur knúði heljar hraði —
hart er stjórnar embættið.
Það er bót hún borgar dalinn
brellinn ef að reynist smalinn,
kunnugur og vel til valinn,
voldugur með herra snið.

Hvar er Sam þinn gildi góði,
gjarn að sinna ungu fljóði?
Minnast hans ég hlýt í óði,
hann er svoddan ekta stál.
Landvörn þér hann vaska veitir,
viturlega jafnan breytir,
krafta sinna kappinn neytir,
kappi stór með hetju sál.

Ótal fleira enn má segja
ef ég vildi braginn teygja.
Bezt er vegna þín að þegja,
þó má bara einu spá:
Bráðum Roblins ríki fellur,
reginn þungur heyrist skellur;
margur smali flatur fellur
fyr sem gleiður þandi skjá.

Þá kem ég og listann laga,
læt þig njóta fornra daga,
keyri þig um hraun og haga,
hef þig jafnan næstan mér.
Lifðu heill á stjórnar stalli,
stundin nálgast, hætt við falli.
Búst við síðsta sorgar kalli,
sem að bráðum klingir þér.



# Nokkrar leiðréttingar við Afmælisbókina

Bls. 54 er Guðný dóttir Björns og Guðrúnar Jónsson sögð gift W. White, á að vera gift G. R. Downey. Þau búna nú í Portage La Prairie.

Bls. 55. Jóhanns sonar Péturs Runólfssonar og konu hans Pálínu var eigi getið í bókinni.

Bls. 55. Kristjáns sonar Guðmundar og Eyjólfínu Bjarnason var ekki getið í bókinni. Hann er búsettur í Sask.

Bls. Thorsteinn sonur Árna og Emmu Jónsson Dalman á að vera Hólmsteinn.

Bls. 56. Ólafar elztu dóttur Gísla Ólafssonar og konu hans, Guðrúnar, er ekki minnst í bókinni. Hún er seinni kona Halls Hallssonar (sjá bls. 63).

Bls. 57. Thórdís dóttir Snæbjörns og Guðríðar Einarsson er talin gift Gustav Stromberg á að vera Gustav Bergquist.

Bls. 64. Þórunnar dóttur Jóns Thorkelsonar og konu hans, Kristínar, er ekki getið í bókinni. Hún er gift Dr. Magnúsi Hjaltason, sjá grein um þau í þessum viðbæti.

Bls. 76. Jóns Jónssonar frá Sleðbrjót er minnst í bókinni en ekki þriggja barna þeirra hjóna, Bjargar, Ragnhildar og Helgu.

Bls. 109. Kristinn Goodman (Guðmundsson) kom vestur um haf 1907 frá Akureyri við Eyjafjörð. Mun hann hafa verið ættaður úr Hrísey. Kona hans var Óvída, ættuð úr Eyjafirði. Settust þau fyrst að hjá Jóni Sigfússyni, sem þá átti heima við Clarkleigh. Anna kona Jóns var náskyld Kristinn. Seinna áttu þau heima við Reykjavíkur Pósthús, þaðan fluttu þau til Lundar um 1913. Keypti Kristinn aktýgjaverzlun Guðmundar Sigurðssonar og Jens Gíslasonar. Stækkaði bygginguna og setti upp greiðasölu og útkeyrslu, sem hann starfrækti um mörg ár. Kristinn og Óvída og börn þeirra voru mjög félagslynd og tóku mikinn þátt í kirkju- og öðrum félagsmálum. Eftir nokkurra ára dvöl á Lundar fluttu þau vestur á Kyrrahafsströnd, og eru nú bæði dáin.

Eftir burtför Kristins starfrækti norsk kona, Mrs. Anderson, greiðasölu á sama stað um nokkur ár, og

Mrs. Fred Lundy hélt því starfi áfram eftir að Mrs. Anderson flutti úr byggðinni.

Bls. 109. Um 1918 seldi Bjarni Bjarnason Rakara- og Billiardstofu sína Kristjáni Backman, (bls. 67). Brann sú bygging til Grunna. Og byggði Kristján myndarlega Brick byggingu á sama stað, og stundaði þar greiðasölu ásamt Billiardstofu.

Bls. 110. Helgi Sveinsson setti á stað viðgerðarverkstæði á Lundar 1916, ásamt Allan syni sínum og Hermann Johnson. Gerðu þeir við bíla og vélar af ýmsu tagi. Einnig setti Helgi hitamiðstöðvar í hús, fyrir þá sem þurftu. Hann starfrækti einnig tinsmíði um nokkur ár. Seldi hann síðan tinsmíðaverkfæri sín til Roy Saul, tengdasonar Þorvaldar Reykdal. Keypti Saul sér byggingu á Lundar og vann að tinsmíði um nokkurra ára skeið. Helgi Sveinsson raflýsti Lundar bæ 1918.

Bls. 138. Gleymst hefir að geta þessara kennara: Guðrún Rafnkelsson, dóttir Mr. og Mrs. Guðjón Rafnkelson, Stoney Hill; Kristiana Stefánson, dóttir Jóns og Guðbjargar Stefánsson, Stoney Hill; Christie Thorsteinson, dóttir Jóhanns og Kristínar Halldórsson, Lundar; Guðmundur Eyjólfsson, sonur Ágústar og Guðrúnar Eyjólfsson, Lundar.

Sú villa slæddist inn í „Lundarbókina“ að séra Adam Thorgrímsson hefði þjónað Lundarsöfnuði eftir dauða séra Hjartar Leo. Svo var ekki. Séra Hjörtur þjónaði Lundarsöfnuði eftir dauða séra Adams.



*Printed by*
THE COLUMBIA PRESS LTD., 695 SARGENT AVE., WINNIPEG

